ke hañ. Eñ hans Læresueinar spurdu hañ ad/huer ad være þesse Epterlijking: huor ium hañ sagde. Ydur er vnt ad vita Leyndadoma Guds Rijkis/ eñ þeim ødrum j Epterlijkingum/ so ad siaande þa siae þeir eige/ og ahejrande þa skilie þier þad ecke. Eñ þesse er Epterlijkingeñ. Sæd ed er Guds Ord/ Eñ hiner vid Veigeñ eru þeir sem heyra þad/ eñ eptera kiemur Dioƀulleñ/ og tekur burt Ordeð vr þeirra Hiortum/ so ad þeir skule ecke Trwa/ og verda hialpleger. Eñ þad Sæde sem fiell j Grytta Jord/ eru þeir/ sem heyra Guds Ord/ og medtaka þad med Fognude/ og haƀa þo ecke nockra Rot/ þuiad vm stundarsaker trwa þeir/ og a Freistingartijma þa ƀalla þeir þar ƀra. Eñ þad sem fiell a millum Þyrna/ eru þeir sem þad heyra/ & velkiast j Sorgum/ Audæƀum & Girndum þessara Lijƀdaga kieƀiast/ og færa enguañ Auoxt. Eñ þad sem j Goda Jord fiell/ eru þeir sem heyra Ordeð/ og hijdhallda þui j godu og Sidsomu Hiarta/ og ƀæra Auoxt j Þolinmæde.

Eev Hia

Hia Lucam Gudspiallamañe j 19
Cap. Stendur skrifad vm þad/
Ad þa Herrañ vor Jesus Christ
stus sa Borgena Jerusalem/ þa hafe
hañ grææted yfer heñe og sagt/ Jerusa
lem Jerusalem/ Ef þu visser huad til
þijns Fridar heyrde/ þa munder þu nu
a þessum Tijma/ þar voecktun a hafa.
Þessa Dags Euangelium/ edur Gud-
spiall/ giefur oss ollum sem Gud af
Hiarta elskñ/ noga Ordsok til/ ad taka
vnder med Endurlausnaranum vorum
Jesu og grææta yfer Eymd Mañkyn
sins/ a huoria hañ miñest sialfur j þe
ssare Epterlijkingu/ og seiger huorn-
en til mune ganga fyrer Mañkynenu
sem hañ hefur sier til Lofs og Dyrd-
skapad/ og til þess ad þad skyllde verda
Erfinge ad eilijfu Lijfe/ sem er ecke
odruuijse eñ so/ ad þar verdur valla ei
en Partur Hialplegur/ af ollu Mañ
kynenu. Ordsokeñ er su/ ad sumer
eru þeir/ sem sialldan eda alldrei vilia
heyra Guds Ord/ ganga Afuega/ a
Strææt.

Strætum Dioþulsins/þa Guds Born ganga rietta Gotu til Guds Ryss/og siñar Soknar Kyrkiu/þesser meiga rie ettelega kallast þeir sem reyka vtan hia Veigenum. Niner adrer eru ecke olijker þessum/ vm huoria strax var talad/sem eru þeir Tilheyrendur/sem lætast heyra Guds Ord/og sitia vnd er þui med ytuortis Gudrækne/Enn nær þeir wt wr Kyrkiuñe koma/muna þeir ecke eitn Guds titel/ af þui sem Presturen hefur þeim kient z Predik ad. Huornen kuña þesser og þuilijker ad vænta sier nockurs Gagns z No ta af Guds Orda Kieñingu? þui þar er eingen Vokue edur Meduerkan N. Anda hia þeim. Niner þridiu eru þe ir/sem vel og Kostgiæfelega heyra Or ded/Eñ fyrer Vellystingar og Ept erlæte þessarar Veralldar/gleyma þeir þui strax/og so sem nidurkiæfist j þeir ra Hiortum/mlijka og þegar Ellduey ste verdur slocktur edur kiæfdur af Va tne. Fiordaflags Tilheyrendur vme

Ee vj huor

huoria Herrañ talar j þessu Gudspiall/þa eru þeir godu sem heyra Orded og Bijhallda þui j godu og Sidsomu Hiarta/ epter þui sem Herrañ sialfur þad wtleggur. Af þessu øllu siañ vær huorsu Hørmulega z sargrætelega/ ad Eynum vorum er vared/ þar ecke verdur vtan eirn Partur aß þiorum Sæluholpeñ/edur þar nærre / vegna siins Ogudlegleika/ Athugaleysis og jlls Framferdis. Þui er ecke Otilheyre legt/ Ad vær sem til eilijfs Lijfs stund um/ Lætum oss ganga þessa Hørmung vors Naunga til Hiarta/ og grætum þar yfer/ ad so fæer verda j Hop vorum/ sem væntum og bijdum epter þeir re eilijfu Sæluhialp. Þar oskāde være/ ad aller mætte komast til Sañleik sins Vidurkieñingar/og Erfa vm sijd er eilijft Lijf. Nier vm þaū vær næst Guds hialp/þleira ad heyra j sialfs Gudspiallsins Wtleggingu/ Huiu vær vilium sundurskipta j tuo Parta.

Og skal hiñ fyrre vera vm Atuik/z Kring

Kringumstædur þær/sem leida til Epe
erlijkinga þeirra sem Herran̄ hier fr
ām̄setur/ j þessa Dags Euangelio.

Añar/vm Sæded sem j Ferfallda
Jord fiell. Fyrst vtān hia Veigenum.
Þar næst j Grytta Jord. J þridia
lage j Þyrnum þackta Jord. Og j fio
rda lage i þa gōdu Jordena/ sem vel
spratt og gāf Avöxt. Hialpe oss DR
DTtin̄ sem han̄ er vanur/so vier mæ
ttū þetta Yferuega Gude til Lofs og
Dyrdar/Eñ sialfum oss til Gagns ꝛ
Sælar Velferdar/Þad heyre Gud
j Jesu Nafne/Amen.

SErnt er þad sem þetta Heilaga E-
uangeliū vmtalar/ꝛ oss fyrer Siont
er setur / ef vier þad Riettelega At
hugum/ og kiemur þad allt vid þeim
fyrra Partenum Gudspiallsins. Þad
fyrsta er vm þan̄ mykla Mannfiolda
sem kom wr øllum Attum og Stødū
til Herrans Christum. Ecke kom
þetta Folk einungis til þess/ad sia og
Ee vij skoda

skoda hans wtuorkis Yferlit/Vøxt og Vænleik/huøriū David hrosar j Psa. 45. so seigiande/ Pu ert hiñ prijdaste á medal Mañaña Barna; Nelldur v^n añar Tilgangur pess/ȝ er/ ad hlyda Guds Orde/ pui pad hafde bæde af honum heyrt og fornumed/ad hñ være Mattugur j Verkū z Ordū/ Eir neñ þ ad hañ hefde Ord eilijfs Lijfs/ So sem Postuleñ Petur vm hañ vott ar. Petta sama sitt Gudoinlega Ord hefur hañ giefed Pienurum sijnum/ sem er Kieñemoñunum til pess/ ad pe ir skule pad wtbreida/ a medal allra Pioda.

Lærum pad pa af Dæme pessa Fo lks/ad sækia og rækia Jduglega vora Soknar kyrkiu/ og po ad vier sieum j fiærlægum Stødum/pa telium pad ec ke epter oss/Puiad sæler eru peir sem heyra Guds Ord og vardueita pad/sei ger sialfur Endurlausnareñ vor hia Luc 11 Cap.

Peir sem j Guds stad eru setter ad Kieñe

Kieña Orded/Þeir verda og so ad vær
ast þad/ad stugga ecke vid þeim/ edur
sia swrum Augum til þeirra/ sem eru
Framande og þurþa þeirra Þionustu
vid/þui ecke giørde þad Herrañ hier/
Alla liet hañ sem til hans komu/bæ-
de wr Nalægum og Fiarlægum stød-
um/heyra siña Kieñing z Predikun.

Þad añad sem oss er athugande j þim
fyrra Partenũ/ þa er Mißmunur sa s̃
er a mille þess sem Sædenu sæer/ og
sialþs Sædesins.

Vm Sædmañeñ er ecke ad tala/ed
ur neinar Gætur ad hafa/ huør hañ
sie/þui þad er sialfur Endurlausnar
eñ vor DROTTIÑ Jesus Christur/
sim og eirneñ hñs Trwer Verka meñ/
Prestar og Predikarar/til huørra hñ
hefur sagt. Fared wt vm allañ Hei-
meñ/Kieñed z Prediked Evangelium
allre Skiepnu. Matth. 28 Cap.

Eñ Sæded er Guds Ord.

Nu so sem þad ad eirn Akurmadur er
E viij lijtels

lijfils virdtur/ hia goduin Nordingū
edur Borgurum/so leid Christur En
durläusnare vor þad/þo hañ være lijf-
ils virdtur vórra vegna/þa hañ vmgi-
eckst hier vor a medal j Holldenu.
Hañ leid þad þo hañ være Hæddur/
so sem añar Fæuiss Madur. Psa. 22
Ja/þo hoñū være samjafnad vid eirn
Spillvirkia/z Odæda Mañ. Esa. 53.
  J añan mäta kañ ecke eirn Akur-
madur þui vid ad koma/ ad vera allt-
jafnt j hreinum Fotum/hélldur verd-
ur hañ a medan hñ er ad þui Erfide
ad vera af Leyr og Saur Jardareñar
fæmugr. So vard Christ z so vórra
vegna/j saurugum Fotum ad vera/þa
hañ vmgieckst hier j Holldenu. Þad
er/ad taka vppa sig Myhd eins Þio-
ns og verda lijkur odrum Moñum/ so
sem Postuleñ vottar til Phil. 2 C.
  J þridia läge þa skulū vær vita/ad
Akurmadureñ er alldrei so/ad hañ ver
de ecke ad hafa sijfelldt Erfide/a sijnū
Akre/ Vetur z Sumar/Vor z Haust/
Huórke

Hvors vegna Akurvitian ma reiknast
hin mesta Vina z Pianing sierhvors
Mans/sem sig til hennar giefur. So
gieck og ecke helldur Erfidet þ af(sem
Guds Sonur hafde vorra vegna)yfr-
er vtan stora Mædu og Pianing/ hu
ar vm han vottar so sialfur hia Esai-
am Spamanne 43. Þu hefur seiget
han/giort mier Erfidismune j þinum
Syndum. Item seiger han j ödrum
stad/sem er j Narmagrat Jerem.1 Ca.
Skoded og hygged ad/ hvort þar er
nockur Sorg/so sem minn Sorg/sem eg
hefe j ratad.

Nu vilium vier sia og yferliega þess-
su næst/hvornen þad kiemur til/ad Þi-
enarar DROTTins sem eru Prest-
ar og Kiennemenn/ lijkiast vid einn Akur-
mann. Fyrst skiedur þad þess vegna/
ad þeir verda optast nær af Heimenum
hatader/ og lijtiels virdter/ framar ødr-
um/ Epter þui sem han sialfur fyrer
Spaer hia Matth. 5 Cap. seigiand
e. Sæler erud þier nær Mennernir

forſma ydur z Opſokn veita fyrer mīn
nar ſaker/z tala ; giegn ydur alla Vo
ndſku þo liugande.

Þar næſt vegna Erþidis muna þeir
ta ſem þeir verda ad hafa ſijfelldlega
j ſijnu Embætte.

J þridia lage vegna Motmælis og
Motkaſts ſem þeir hliota ad lijda.

J fiorda lage fyrer Einfalldlegleika
og Forſialigleika / ſem Herran bydur
þeim ad vera Medpryddum. So ſeig/
iande/ Vered Einfallder ſem Dwfur/
og ſlæger ſem Hoggormar. Matt. 10.

J fimta mæta/ſo ſem þad eirn Akr
madur hefur Þorf þþrer / ad hafa
gott Sæde til ad ſa j Akur ſin. So
er þad og ſo Naudſynlegt/ Ad ein̄ Ki
en̄emadur/ kun̄e vel z ſkilie ſijnar Tiw
ar Hofudgreiner og Articula/ Huor
tum han̄ á Nidur ad ſa/ med Ordſi
ns Kien̄ingu j Hiortu ſiña Tilheyren
da. Þui huorneñ kan̄ ein̄ odrū þ ad Ki
eña/ſm̄ hñ ſialfur ecke veit edur kan̄
J ſiotta og ſijdaſta mæta/Bilie Ak
un

ut madurenn hafa nockur Not z Gagn
af sinne Akurvinnu/ þa hlytur hann ad
bidia Gud/ad blessa hana/og giefa þ
ad þad Sæded/ sem hann hefur Nidur
sad mætte væra Hundrad falldan A-
voxt. Eins verda z so Kiennemennerner
ad giøra. Alldrei meiga þeir suo sa
Sæde Guds Orda i bland sinna Tilhe
yrenda/ad þeir bidie ecke Gud af Hia
rta og Alvøru/ ad þad meige Avoxt
væra i þeirra Hiørtum.

Nu viliu vier þessu næst heyra nock-
ud lijted talad vm Sæded z huørnenn
þui ma samlijkia vid Guds goda Ord.
Fyrst skiedur þad i þann mata/ad i Sæ
denu er Natturlegur Varme/ Af huø
rium Varma aptur Vppvex z Blom
gast Korned a Kornstaungunum þa
Sumared kiemur.

So er þui og vared/fyrer þui And
lega Sædenu/ sem er Guds Ord/ þad
hefur Natturlegann Varma/z Hita i
sier/Einkum þa þui verdur Nidursad
i god Guds Barna Hiørtu/ epter þui

 sem

sem þar stendur j Psalm. 19. Og hiá Je. em. 23. Cap. Þar Spamadurenn vnder Personu sialfs Herrans Christi talar so/ z seiger. Er ecke mitt Ord lijka sem eirn Elldur?
Þar næst/ suo sem þad/ ad Sædid er hæst/ og til þess eins þienanlegt/ ad þui verde nidur sád j Jordena/ vppa þad/ ad þad giefe aff sier aptur/ ecke Einfalldann/ Tuofalldann edur Þrefalldann Auoxst/ helldur Hundradfalldann. So skal og ecke helldur Guds Ord nidur/ aff Kiennemannanna Munne til þess ad þad sie Auaxtarlaust/ Helldur bere Auoxt til Eilijfs Lijfs. Gal. 6. C.
J Þridia lage þa er Sædenu þui sem j Jordena verdur nidur Sád/ sw Magt og Kraptur gieffenn/ Ad þo þad sie Grytt Jord/ sem ofan a þui liggur/ þa vex þad þo ecke ad sidur vpp / og færer Godann Auoxst. So er þui z vared/ Ad þo marger Motstødu menn z Kiettarar/ vilie nidurkiefia med Præ stum/ og Folskum Argumentis/ Þad
godd

gooda Sæded/ sem er Guds Ord / sem nu noglega yfergeingur. Þa lætur Ne tran þeim þad ecke takast/edur j noc kurn mata Luckast.

J Fiorda lage/ Þar Akurmadurenn Nidursæer einu og odru Korne/j sinn Akur/þa meinar hann ad þa af huor-iu Korne Hundradfalldann Avoxt/þad er/ Ad hn meinar/ad hann mune af hu orre eirnre Kornstaung fa Hundrad/ edur halft annad Hundrad Korn.

Eins være þess af Hiarta og Alhu-ga oskande/ad þad Sæde Guds Orda sem vær wisaum a medal vorra Til-heyrenda/meige ecke einungis Hundr-ad falldann/helldur Þusundfalldann A voxt fæta/hia einu og sierhuoriu Gu-ds Barne/so munde Erfide vort ecke forgiefins verda j DRotne, 1 Cor. 15.

Epterfylgier nu þad þridia/sem oss er adgiætande/og ahrærer Adspurn Læ-risueinanna/þar þeir spyria Christum ad/ huad Epterlijking þesse hafe ad merkia sem hann framsetur.

Af þeirra Dæme skulum vier hafa þetta til Lærdoms/sem er/Ad lata oss ecke þykia Mynkun edur Skömm ad þui/ad spyria Presta vora z adra Guds Ords Þienara/huørnenn vær eigum þad ad skilia/sem vær þykiustum ecke sia sier riettann Grundvoll a hafa / Bref-kande þar wti Epter Dæme þess goda Nicodemi/Huør ed var eirn myk-ell Madur/z Høfdinge j Israel. Joh 3. Eirnenn Gielldingsins/sem var Vill-dar madr Drottningarennar Candaces/ j Postula giorn. 8. Cap. Og sialfs Herrans Christi Postula.

Nu epterfylger ad minnast a Andsuar sem Herrann Christur giefur Læresuei-num sijnum/þa þeir spurdu hann ad/hu ad þesse Epterliijking hefde ad þijda? Hier til suarar hann þeim med fäaum Ordum og seiger. Ydur er vnt ad vi-ta Leynda doma Guds Rijkis. J hu-orium Ordum hann giefur oss ollum z Þiona eigum j hans stad Gude og Ch-ristnefie/ kann Lærdom og Aminning/ Ad

Ad vær skulum Noguærlega og med Speckt godre/ framplytia sitt N. Evangelium. Þar næst giefur hñ oss þa Aduorun/ sem odrum eigū ad Kieña/ Ad vær lærum oss huorke j Lete nie Neñingarleyse fundna vera/ so myked sem Embætte voru viduiskur/ þui so stendur þar hia Postulanum Pæle. 1 Cor. 4. Nu heimtest ecke meira af Verkstiornar moñunum/ Eñ þad þr piñest truer. Og skal þ so sagt vm þañ fyrra Parteñ j Herrans Nafne.

EPterfylger med fæum Ordū/ ad miñast a hina adra Greinena/ huor ed hliodar vm þad Fiogra handaslags Sæde/ edur vm þa þerfolldu Guds Ordz Tilheyrendur. Huorium hin um fyrstu ad lijkt verdur vid þad Sæded sem fellur vtan hia Veigenum/ verdur Fotum troded og Fuglar Lopt sins eta þad.

Tuent er oss hier Athugande/ Fyrst þad/ Huad skiliast a fyrer þeñañ Veigeñ/ huors hier verdur gieted/ s er Mañ

 sins

sins Augskot edur Hiarta/ sem fullt er med jllar og Suiuirdelegar Augrenin gar/ so sem ad eru Hiortu Ohofsmana sem lifa j allskonar Girndum/ Ohofe og Lostaseme. Um huøria Syerma duren Esa. 51. Talar nockurneigen so a þenan hatt og seiger. Þu hefur giort þin Lykama ad Jordu sem vppa er geinged/ og so sem ad einum Gotu stig þeim sem fram hia ganga. Þad er Dioflenum / sem vmsitur Manns Hiarta/ og stær þar jn margskonar jllum Þeunkum/ so sem eru aller þeir sem ecke vilia neina Motstødu veita þui hinu vonda/ helldur giora allt þad sem þeim nalega j Aug og Hiarta kie mur. J þess hattar Mana Hiortū kan Guds Ord onguan Avøgst ad færa.

Hier næst vilium vier skoda og yfer vega/ huar fyrer ad Dioflenū verdur lijkt vid Fugla Loptsins. Fyrst skied þ̄ þess vegna/ ad þr eru af Natturūne til eins Lietfærer Andar/ og Fuglum

fliotare

fiotare til ad þliuga vm Lopted/ z giera ad huad Meñerner adhafast. Þᵃ næst so sem þad ad Myflugurnar eru j storum Hoopum / þyckt til samans j Loptenu/einkum þegar Varmiñ er/so hallda z so Dioflarner sier j dyñu og Þokusmu Lopte; J Þridia læge liȳ kiast þeir vid Fugla Nimenfins / þess vegna/ad so sem þad ad Fuglarner til̃ na smæsmuglega og vandlega vpp/hu ert z eitt Korn sem nidur dettur a Jørdena og þeir kuña ad næ/Suo er og so Dioþullen̄ æstundunarsamur og yd eñ til þess/ad bera sig ad næ og burt tijna/ þær bestu og sætustu Hugganer wr Mañaña Hiortum/ sem kueikiast af þui Himneska Sæde Guds Orda.

Siaum þar fyrer til/ad vær stondū j mote Dioflenum af ollu Megne og Mætte/og giorum þad fyrst med heitre og Aluarlegre Bæn og ækalle til̃ DRottins/Þuiad so s̄ þ/ ad Fuglarn er styggiast vid z hrædast/þa Meñ hrø pa z kalla hatt/so hrædast z so z bur

su vykia Dioflarner/ þa vier hropum
til Lifanda Guds/ og bidium hañ j Je
su Nafne/ ad standa hia oss/ so Andsko
teñ fæe oss eckert Mein giort. Þar
næst skulum vier Dioflenum Motsto
du veita med Kostgiæfne/ og Athuga
seme jafnañ/ epter þui sem þar stend-
ur 1 Pet. 5. Vaked og vered Spar
neytner/ Þuiad ydar Motstandare Di
ofulleñ/ geingur vm kring sem grenia
nde Leon/ og leitar ad þeim sem hañ
kuñe vpp ad suelgia.

J þridia lage/ so sem þad ad Akur
meñerner plaga ad vppsetia hingad z
þangad Hrædur vm Akureñ/ so ad Fu
glarner styggiest helldur vid þær/ og gi
ore þess sijdur Skada a Kornenu.
So eigum vær og so/ ad setia a millū
Dioflaña og vor/ Kuol vors Herra z
Krossins Pijn/ sm̄ Keypte oss fra Da
uda/ so sem vær syngiū j Morgun Ps-
almenum vorū/ Þui hun er þad sem
alla Diofla hefur yfervñed.

Aññar Partur edur Flockur Tilheyr
enda

endaña vm huorn Herrañ talar hier j Epterlijkinguñe/ og lijker vid þ Sæ de sem ſalled hafe j Grytta Jord. Þa eru fyrſt þeir aller/ ſ̃ eru Oſtøduger og falla fra a Freiſtingar tijmanũ. Þar næſt þeir sem fyrer Chriſti ſaker eck ert vilia lijda/ Læaſt vera j Dag gø der Chriſtner Meñ og Safnadarens Limer/ Eñ a Morgun eru þeir Heid ingium verre. A añare Stunduñe læt aſt þeir bidia Gud/ eñ a añare Bolua þeir og Formæla. Þa þeir eru j Ky rkiuñe læaſt þeir vera Heilager ſo ſ̃ eiñ Eingell/ Eñ ſtrax ſem þeir koma wt fyrer Kyrkiu Þroſkulldeñ/ eru þeir Dioſlum verre. Þeſſe þeirra jll Dæme eigum vier ad varaſt/ eñ haſa ſaña Þolenmæde j allskonar Kroſſe z Motgange/ epter þui ſem ſialfur Herr añ ſeiger hia Matt. 24. Sæler eru þeir ſem ſtøduger blijfa allt til Enda.

Um þridia Flocknum Tilheyrenda ña/ lijker Herrañ vid þad Sæde/ ſ̃ fiell a medal Þyrna. Hier er oſſ ad giætan

 de

de/ huad merkiast a fyrer Þyrnana/ þad wtleggur Herrañ sialfur/ sem er/ Fyrst Augsyke z Bwksorg. Þar næst Rijkdomur/ þegar Madur fester Hiarta sitt vid Gotz og Peninga. J þrid ja lage Bellystingar þessa Heims. Fyrst skulum vær vita/ ad so sem þad/ Ad Þyrnarner Blomgast snogglega og eru fagrer Alits/ eñ hafa þo samt stingande Brodda. So Blomgast og so þeir Agiornu Veralldar Meñ vm Stundarsaker/ Þar epter hliota þeir ad Brenña med þeim Rijka Mañe/ j O slockuanlegum Ellde. Þar næst so z þad/ ad Þyrnarner meida Meñ z Særa/ þa vid þa er komed/ So særa og so Audæfe og Rijkdomureñ Mañaña Hiortu/ þa þeir elska Mamon ofmyked og vill koma þeim til ad girnast allt jafnt meir og meir. Sækiustum er ke þar pyrer epter Aud og Rijkdome/ meir eñ so sem godu Hoþe giegner/ so ad vier missum ecke þar fyrer Frid og Rosemd Salareñar/ z hiñ H. Augustinus

gustinus ad Orde kiemst. J þridia lage so s̄ þ ad mæal Þyrnañā eru optast nær Ormar og Eyturkyndur/so fylgia og so Aud z Ríjkdome marger Lester. J þiorda lage so sem þad/ Ad Þyrnar ner Nidurkiefia Sædenu/ Eins lijka Nidurkiæper Ríjkdomureñ þui blessada Sæde Guds Orda hia allmorgum/ so s̄ ad skiede þau Ananiam z Sephiram/ huor ad þo þau sæte vnder Predikun Postulans Peturs/ þa hugudu þau samt meir vm Ríjkdom siñ/eñ þ hañ kiende/huors vegna þau duttu bæde Dauð nidur. Act. 5.

Þeim fiorda z sijdasta Hopnum Tilheyrendaña/ Lijker Herrañ Christur vid þad Sæde sem siell j goda Jord. Þrent er þad seni þessum sijdasta Hopnum a ad vera lænad. Fyrst er þ ad heyra Orded vel z rækelega. Þar næst ad hijhallda þui j godu og Sidsomu Hiarta. Og j þridia lage/ad færa ax þui Avoxt j Þolenmæde/epter þui sem sialfur Endurlausnareñ vor Jesus tal

ar hier j Nidurlage Gudspiallsins.

Af þessu ollu kunum vier ad sian ꝛ merkia/ huad lijtel og audvird leg ad sie Niorden Herrans Christi ad reikna a mote þeim stora Hop þeirra Ogudlegu/ Þar ecke verdur Holpen vtan all einasta fiorde Partur Mankynsins. Bidium þar fyrer Gud Innelega ꝛ al uarlega j Nafne sijns sæta Sonar/ ad senda oss iafnan sinn goda H. Anda/ sa ed Werke þad j vorum Hiortu/ Ad vier ydduglega og med Auexte mættum heyra Guds Ord/ ꝛ færa honum æijd eirn Jdrande/ Narmþrungenn og sundr krámenn Anda til Offurs/ fyrer Synder vorar/ eirnen sanna Þolenmæde/ j all skonar Motgange. Huar til oss sende Gud Fader Rijkdom sinnar Nadar/ ꝛ þ fyrer Forþienustu og Verdskulldan sijns Hiartans Sonar Jesu Christi/ Huorium med Fodurnum og H. Anda/ sie Lof Dyrd og Vegsemd / sogd og sung inn af ollum Tungum/ nu hiedan j fra/ ꝛ til Eilijfdar/ Amen.

Bæn

## Bæn sem lesast ma epter Eij daða og wtlesna sierhuoria þes sa Predikun.

O Þu eilijfe ꝛ Myskunsame Gud og Fader vors Drottins Jesu Christi/ Vier seigium þier af Hiarta Lof og Packer ꝥ allar þijnar Gafur/ Andleg ar og Lijkamlegar oss aumum Syndurū veittar. Sierdeilis þackum vier þier ꝥ þitt H. Ord/ sem þu lætur rijkuglega kiennast vor a medal/ a þessū sijdustu Tijmū/ Sem og eirnen ꝥ rietta Handtieran þra H. Sacramenta. Vær meigum jaata ꝛ Medkiena/ ad vær erum mine øllū þijnū Myskunsemdum/ sem þu lætur fram vid oss koma/ Nyar ꝛ Feskar a huoriū Morgne. Frameigis bidiū vier þig Himneske Fader j Nafne þijns Sonar Jesu Christi/ Ad þu vilier vid Magt hallda hia oss ꝛ vorum Epterkomendū til Heimsins enda þijnū H. Orde/ Eñ forda oss fra øllum liotum og Vidurstyggelegum Syndum ꝛ Glæpum. Gief oss þin goda H. Anda/ so ad vier mættum vid þitt Blessada Ord ꝥ saūre Tru og Gudrækne stadfaster blijfa og

og standa allt til Enda. Blessa þu & af
ast þær þriar Höfudstiettir/ Sem er/ þa
Veralldlegu Stiettena/ Vorn Nädiuga-
sta Herra og Kong/ hans Næbornn Drett
ningu/ Vorn wtvalda Printz/ & þann Kon
unglegu Børn. Einnen alla þa adra sim
vnder hans Koninglegu Regimente/ eiga
ad seigia Løg og Riett. Gief þinn goda
H. Anda øllum Ordsins Þienurum/ suo
þeir med Kostgiæfne og alvarlegre Astun
dan frammfylgie synu Embætte j þui/ ad
kienna þitt Ord/ hreint Klært & Omeing
ad/ þynu Nafne til Dyrdar/ enn Sofnud-
emm til Tymanlegrar og eilyfrar Vel-
ferdar. Vardveit & einnen Næestiornar
stiettena/ so hun life j sønnum Guds Ot
ta/ Eindrægne og godu Frammferde/ vppa
þad/ ad þitt H. Nafn j øllum Stiettu
mætte verda heidrad og Lofad. Enn vær
mættum þar so lifad/ ad vier vm sijd
er ødlistum med þier eilyfa Sæl
at Heill og Velferd.

AMEN.

# Til Lesarans

EG vil gooda og Gudhrædda Lesendur þess arar Bookar/ vita láta/ Ad þo eg häfe j fyrstu áset/ ad þrÿr skyll dú vera Partar þessar ar Postillu/ so sein eg hefe Raad fyrer giort og äuiked bæde j Titlenum og so Formäla Bookarennar/ Þa verd eg þui nu af ad slaa/ sokuin þess ad mier hefur brugdest Pappir og önnur Tilfæring til Prichetnisins þetta fyrerfaranda Aar/ huöria eg häfde þo bestillt. Þui hef eg þad äfrääded ad skipta Bookenne odruvijse/ Og láta hana wtganga med Hialp DROTTJNS j tueimur Portum sem vera skal Vetrar og Sumar Partur/ Og tekur Vetrarparturenn fra Advent til/ til fyrsta Sunnudags epter Paska/

G g   Enn

Eñ Sumarparturen þadañ og til Advento aptur/ Þui mier þiker myked ad læta þañ Pappyr forgieþins liggia/ sem eg hefe feinged/ Þo lijtell sie/ og ecke anægañlegur vnder meira eñ þeñañ Viduranka/ fram yfer Pæska Nætijdena. Vil so hier med ha fa alla gooda og Gudhrædda Meñ/ eilijfum Gude befal ada/ z Orde hñs Nædar i Jesu Nafne.

Gysle Thor. S.



Evangel. Matth. 3.

Þann tijma. Kom Jesus af Galilea ad Jordan / til Johannem / vppa þad hann skijrdest af honum / Enn Johannes varnade honum þess og sagde / Mier er þorf ad eg skijrest af þier / og þu kiemur til min ? Enn Jesus suarade og sagde / Lattu nu so vera / þuiad so hæfer oss alle Riettlæte vpp ad fylla. Og þa liet hann þad epter honum. Enn er Jesus var skijrdur / stie hann jafnskiott vpp vr Vatrenu. Og sia / ad Himnarner lukust vpp yfer honum / Og Johannes sa Guds Anda ofan stijga sem Dufu / og yfer hann koma. Og sia / Ad Rodden af Himne sagde / Þesse er Sonur minn elskulegur / ad huerium mier vel þocknast.

Huad mykel og stoor Dasemdar verk / ad Gud DROTTINN hafe giort / a medal annara sinna

Furduverka/bæde a Sioonum og Bøt
nunum/Pad kuñum vier allvijda ad le
sa j heilagre Ritningu.

Myked z stoort Daseindarverk var
pad/pa hañ sundurskipte Hafenu rau
da/so pad stood sem eirn Mwrveggur
a badar sijdur/a medan Israels polk
gieck par j giegnum. Exo. 14.

Myked var og so pad Guds Furdu
verk/sem hañ giorde a Sionum/ Pa
hañ var sialpur j ñañbords med sijnum
Læresueinum/Eñ Skiped laa vnder A
føllum/af Stormvidre z Siafarölgu
Pa hastade hañ a Vindeñ/og jafnski
ott vard Logn myked. Matth. 8.

Nu so sem hañ giorde sijnar Da=
semder a Sionum/ So hefur hañ og
so ecke sijdur pær giort a peim þesku
Vøtnum. Var pad ecke eitt minnis
stætt Dasemdarverk lißanda Guds/ s
par skiede vid Jordan/a Døgum Jo=
sua/vm huort hñ sialfur skrifar/ j sñ
ar Bokar 3. Cap. Ad pegar Prest
arner sem bæru Sattmals Ørk DR
öttins

DRottins vndan Israels Folke/ lietu sijnar Fætur j Jordanar vatn/ þa ad skilde þad sig/ Og Josua gieck þurr-um Footum þar j giegnum.

Þad var og so myked Furduverk/ sem Spamadurenn Eliseus giørde vid Jordanar flood/ þa hann sloo Møtli sijnum a Vatnid/ þa skiptist Aenn j sundur/ suo Eliseus gieck þar j giegn um/ Quar vm lesa maa 2 Kong. B. 2.

Eins er ede þad lijka/ ecke aan stær-stu furdu/ Ad þa Naaman Syrlend ske þuode sig sio sinnum j Jordan/ ept er skipan Elisei/ þa vard hann Heil-brygdur af sinne Spitelsku. Enn þad sem nu j Dag skiedur vid Ana Jor-dan/ þad er øllum Dasemdarverkum z Jarteiknum ædra. Þui sæmum til Nu j Dag kiemur til Jordanar/ ecke Sattmaals Ørk DROTTins/ helld ur hann/ huørs Fyrermyndan Sattt-maals Ørkinn var. Þui so seiger S. Paall Rom. 3. Ad Gud hafe skick ad Jesum Christum/ til eins Nadar

arſtools/ſyrer Trwna j hans Blode.
Nu j Dag adſkilſt ecke Jordan/ ſo ſ a Eliſei Dogum/ Helldur opna ſig nu Himnarner vpp yfer Jordan/ ſuo ad Guds Fodurs Rauſt heyreſt klaar lega. Jeſus Guds Sonur auglyſieſt hier openberlega. Og heilagur Ande kiemur ſialfur yfer hañ j Dwfu lijke. J Dag gioreſt Jordanar Vatn ecke þienañlegt til þeſſ/ ad burtþuo og hr einſa Lijkamlega Spitelſku/ huorke Naamans nie añara/ Helldur gioreſt nu Jo dan/ og oll offur Votn/ fyrer Guds Ord og Jeſu Chriſti Skijrn/ hentug til þeſſ ad vera ein Endurgiet ningarlaug/ j huørre ad aller þeir ſem Skijrder verda j Nafne heilagrar Þr eñingar verda afþuegner ollum ſijn um ſyndum. Og viltum vier nu hier epter heyra ſtutta og einfallda Vtſkijring Gudſpiallſins/ Huort ed ſundurſkipteſt j tuær Smagreiner.
1 Og hlioodar hin fyrre vm ſamtal Johañis og Herrans Chriſti.
Hin

2 Nin oñur vm þa Vidburde sem ske edu þa Jesus var Skijrdur.

G: d hialpe oss med sine Nad/ so vier mættū þetta Gudrækelega yfer vega.

Margt gott z nytsamlegt kiefier oss þetta heilaga Evangelium. J fyrstu setur Skijrneñ Herrans Christi oss þad fyrer Siooner/ huad myked gagn og eilijf Sælarnot vær hefum þar af/þa vier verdum Skijrder j Nafne heilagrar Guddomsins þreñingar/Lœtum oss þar fyrer med allre Hiartans audmykt yþervega Skijrnena vors DROTTins Jesu Christi.

J Vpphafe Gudspiallsins stendur so. J ÞANN tijma. Kom Jesus af Galilea/ ad Jordan til Johañem vppa þad ad hañ skijrdest af honum. Hier er oss fyrst athugande/a huorium tijma þad hafe verid sem Jesus kom til Johañem/sem var þa/Þegar Johañes Predikade fyrst j Eydemorku Gydingalands og sagde. Giored Idran / þuiad Himnarijke er nalægt.

Matt. 3. Item þegar hañ frammseiſe
ſy r þa Phariſeos og Skriptlærdu/
ſem komu til hañs Skÿrnar/ þa hør-
du Logmals P edikun/ſeig anne ſuo
til þeirra. Þier Nødrukyn/ Hus he
fur kient ydr ad flya ꝩ tilkomand Re
jde/Giøred verdugañ Avoxt Jdrunar
iñar. Þeſſe var nu tÿmeñ a huorium
Jeſus vor Endurlauſnare kom til Jo
hañem ad laata ſkÿra ſig.

Nier af ſkulum vier þad 'æra/ Ad
ſle ſo/ vier viliūm ad Jeſus kome til vor
ſo ſem hañ kom til Johañem / þa bre
ytum epter hans dæme/ verum audmiu
ker r lÿtelæt? ſo ȝ' hñ v". / Hñ hiellt ſig
ecke verdugañ þeſſ/ ad hañ ſkyllde vpp
leyſa Jeſu Skoþueings. Somu aud
mykt ſynde og ſo a ſier/ Forfadereñ A
braham/ þegar hañ ſtood fyrer Gude
og ſagde ſig ad vera dupt og Oſku.
Gen. 18. Eirniñ þad wtvalda Guds
Verkfære Poſtuleñ Pæll/ Huor ed af
ſañre audmykt vid lifanda Gud/ſat-
ar ſig ad vera ſiſtañ Poſtulaña/ og ei
þeſſ

þess verdugañ/ ad hañ meige Postule heita. 1. Cor. 15.

Hafe nu þesser og þuilijker hatt-upplyster Meñ/ audmykt sig so z lijte-lækad fyrer Guds lifanda/ Skylldum vær þa ecke/ sem langtum miñe Gaaf-ur høfum þeiged/ myklu framar aud-mykia oss vnder volldugа Guds Hond vppa þad vier verdum vpphafder a Vitiunar tijmanum?

Þessu næst skulum vier athuga/ vr huorium Stad edur Platze ad Herr-añ Christur hafe komed/ þa hañ foor ad læta skijra sig. Gudspiallamad ureñ seiger/ hañ hafe komed af Gali lea. Þetta er nu þuert a moote Gyd ingum/ Þeir høfdu ædur sagt til Nico demum ad hañ skyllde ransaka og sko da/ þad af Galilea rise ecke Spaamad ur vpp. Joh. 7. Sieñ þeir nu hier þuert a mote og skode sijna Blindne/ Var ecke Jesus vppaliñ i Galilea? Luc. 2. Hoof hañ ecke þar fyrst sitt Ki eñemañlega Embætte? Giørde hañ

 þar

þat ecke sitt fyrsta Dasemdarverk? So slaū vær hier ad þ er satt sem sialfur Guds Ande seiger fyrer Spamaū eñ Esaiam 55. Mÿner Þankar eru ecke sem ydar Þankar/og mÿner Veger eru ecke sem ydar Veiger/ seiger DROTTIN.

Eñ Stadureñ til huors vor Endurlausnare kom/þa seiger Gudspiallamadureñ ad verded hafe Jordan/Naū gietur hier og so huort ad vered hafe Erendid/sem er þad/ Ad haū skÿrdest af Johañe. Med þui þa ad sialfur Endurlausnareñ vor Jesus Guds eingieteñ Son villde lata skÿra sig/ Þa ma Skÿrneñ vissulega eitthuad gott verka hia oß Mañunum/ og sañarlega mun huñ vera einu og sierhuoriu Guds Barne harla naudsynleg j sijnum Christendome/z j sijnu Embætte.

Nu eþ einhuør gyrnest ad vita a huorium Alldre Herraū Christur hafe vered/ þa haū liet sig skÿra/ Þa var þad a hans þrijtugasta Alldurs

Are

Are/a huoriu hañ ïñgieck og einneñ
ſiit Kieñemañlega Embętte/ Og var
þeſſe hans Skijrn ſuo ſem ein Jñvijg
ſla/ til hans Kieñemañlega Embættis.
Þar nu DROTTIñ vor Je
ſus Chriſtus ſkijrdeſt ecke pyrre enn
hañ var ſo til Alldurs z Ara komiñ/
Þa vilia ſumer Villumeñ/ ſem kallaſt
Anabaptiſtæ edur Endurſkijrarar/ ad
Borneñ ſieu ecke fæd til þeirrar heilo
gu Vatnsſkijrnar fyrr eñ þau eru full
tijda. Þar a mot ſuorum vier/ ad Drott
ſok/ huar ryrer Chriſtur hafe ecke ſkijr
rſt ſtrax a Vngdoms arum ſijnum/
eins og vor Born ſie ſu/ ad Skijrniñ
var þa ecke jñſett/ Þui hun byrjadeſt
ecke fyrr eñ a hans Alldurs 29 are/
Þa Johañes took fyrſt til ad ſkijra.
Þegar Chriſtur fæddeſt i Mañlegu
Hollde þa var Vmſkurniñ tijdkanleg/
eñ ecke Skijrneñ. Nuorneñ kuñe hañ
þa ſig ſkijra lata/ fyrr eñ Skijrnar
Sacramentid var jñſett/ z af Johañe
Handterad? Eñ var ſkulum epterfyl

gia Befalningu vors DROTTins Jesu Christi/þar hann so bijdur og ski par/Leifed Børnunum til mijn ad koma og hafed þeim þad eige.

Nu vilum vier skoda og yfervega Ordsaker þær huar fyrer Herrann Christur villde lata skijra sig.

Hin fyrsta var þesse/Ad hann villde þar med styrkia og stadfesta Johannis Lærdom/Embætte og Skijrn/þui þa Johannes took fyrst til ad Predika og skijra vid Jordan/þa þotte Gyding um þad vndarlegt/ad hann skyllde med nyum Lærdome stipta nya Ceremoniu Skijrnarennar/huor ed var myklu oduvijs/en þær Mosaisku og Levitisku Hreinsaner/edur Þuottar voru/ad hu priu þeir fundu og eirnen vid Johannem/og spurdu hann ad/huar fyrer hann skijrde/fyrst hann være huorke Christus/ecke Elias/ og ecke Spamadur/ þar fyrer var Johanne þorf a slijkum Vitnisburde herrans Christi/so eingin Madur skyllde gieta tuijlad vppa hans Skijrn

Skijrn/þad hun være af Mosium/hê lldur af Rade z Skickun/þeirrar hei løgu Guddomsins Þreñingar/ huør ed sig hier openberade.

Eñur Ordsøk til Herrans Christi Skijrnar/ þa var þesse/ ad hañ villde þar med lata vijgia sig til sijns Kieñe mañlega Embættis/ huørt hañ jñgieck og vppa sig tok vnder eins og hañ skijrdest. Þegar Prestarner j þui Gam latestamentenu/ voru vijgder eda stad=fester/ til sijns Embættis/ þa skiede þ med sierlegum Ceremonium/ þui þyrst hlutu þeir ádur eñ þeir byriudu sitt Embætte og Þionustugiørd/ ad lata hreinsa sig og þuo/ so sem lesa ma j Exo. Bók. 29 z 40 Cap.

Eins villde z sa ypparste Kieñemañ og Erkibyskup DROTTiñ vor Jesus/ stiga ofan j Jordanar vatn/ þa hañ jñgieck sitt Kieñemañlega Embætte/ eñ eige giorde hañ þad þess veg na/ ad hañ þyrfte med nockrar Hrein sunar/ so sem hiner Prestarner/ med

 þui

þui hañ visse af ongre Synd/og eiñgñ Suik vrdu fundeñ j hans Muñe edur Ordum/helldur vppa þad ad hñ vppþylte allt Riettlæte/so sem hañ sialpur hier seiger og vottar/til huorrar Vppþyllingar ad þetta hans Lijte læte og Niþdne heyrde.

Þar næst villde vor DROTTiñ Jesus Christus lata skijra sig/ vppa þad hañ fyrermyndade þar med og fyrersegde sijna saaru Pijnu og bitrann Dauda/sem hñ villde lijda vorra Synda vegna/ þui huad var hans nidurdyþing j Vatned/edur Vatnsins Yfer helling añad eñ Merking þess ad hñ munde søckuast sier nidr vnder Strauma Gudlegrar Reide? Eñ Vppstigning hñs aptr vr Skijrnar vatnenu/takna de hans dyrdlegu Vpprisu fra Daudum/og þad hañ munde ecke j Daudanum blijfa/helldur ad hañ munde lata sia sig aptur/ med Sigre og Vegsemd/Og þess vegna samlijker hñ sialfur sine Pijnu vid eina Skijrn/so sem lesa

ſeſa ma hia Lucam Gudſpiallamañe j
12 Cap. Þar hañ ſo ad Orde kiemſt
og ſeiger. Eg hlijt ødur ad lata ſkij
ra mig med eirnre Skijrn/og huorſu
þreingiſt eg þar til hun fullkomn-
aſt. Eirniñ ſpyr hañ Jocobum og
Johañem ad huort þeir kuñe ad dre
cka þañ Kaleik ſem hañ munde drec-
ka/eda huort þeir kyñe ad ſkyraſt þei
rre Skijrn ſem hañ munde ſkijraſt/
hia Marc. 10. Cap. Huad allt hann
talade vppa ſijna Pijnu.

J þridia lage villde vor Endurlauſ
nare ſkijraſt hier af Johañe i Añe Jor
dan/ſo ad hañ beviſſade ſig þar med
ad vera ſañañ Natturlegañ Mañ/
eñ ecke Sionhuerþing nockra. Jtem
Ad hañ hefde ecke Himneſkañ Lijka-
ma vppa ſig tekid/helldur Natturleg
añ/Ja/vort eigid Holld og Blood.

J fiorda lage liet Herrañ Chriſtur
ſig ſkijra/vppa þad/ad hñ med Skijr
nareñar Med tekningu/ vitnade ſig ad
vera/ Sattmala bundeñ vid Kyrkiu

Og viſſ þeſſ

þess Nyatestamentisins/ og ad hann være hestar Nøfud/ so sem hann og eir nin Bevissade sig ad vera Lim og Lid/ Kyrkiu þess Gamla Testamentisins/ fyrer medteckning Vmskurnar Sacramentisins.

Fimta og sijdasta Ordsøk/ Herrans Christi Skijrnar/ var þesse/ Ad hann med sine allra helgustu Skijrn/ helgade og vygde vera Skijrnarlaug/ til eins hialpsamlegs Floods/ og rijkugle grar Hreinsunar Syndanna.

Nu vilium vier fara afram leingra og heyra huornenn Johannes tekur vn der vid Herrann Christum/ vm hans Erende. Gudspiallamadurenn Matteiger/ Ad hann hafe varnad hønum þess og sagt/ Mier er þørf ad eg skijrest af þier. Sannarlega ef vier vilium skoda og yferuega/ þyrer huoriar Ordsaker/ ad su heilaga Skijrn sie innsett z stiptud/ z sijdan af oss Mønnum inn brwkud/ þa sijnest j snøggu Alike/ so sem þ ad Johannes hafe haft Riett vppa

vppa ad standa/þar hañ varnar Chri
isto ad skijrast. Seiger ecke sialfur
Endurlausnareñ vor so hia Johañ
em j 3. Ad þeir einer þurþe Skijrn
areñar vid sein af þeirre þyrstu Fæd
ingu eru fædder/Holld af Hollde/þad
er/Synduger. Meñ/ af Syndugum
komner. Kieñer oss og so ecke Ande
Guds hia Marc. Gudspiallañ. 1. C.
Ad Skijrn Johañis hafe verid ein
Jdrunar Skijrn til Syndaña Fyrer
giefningar. Nu hafde vor Endur-
lausnare Jesus onguar Yferbötar þö
rf/þui hañ var af siñe þyrstu Fædin-
gu Sañheilagur/ og eingietiñ Guds
Son/Og Eingilleñ Gabriel/þa hañ
bodade Jomfru Mariu Gietnadeñ/
þa kieinst hañ so ad Orde/ og seiger/
Ad þad heilaga sein af þeñe iñiñe
fædast/skule kallast Sonur Guds. Lue
1. Nuor vill þar fyrer seigia ad Joh-
añes hafe ecke riettelega suarad Herr-
anum Christo og sagt/Jeg hefe þorf
ad eg skijrest af þier/ og þu kiemur
H 8

til myſn?

Nier af hǫfum vær oſſ þad til Lær⸗doms ad taka af Dæme Johañis/ Ad vier eigum æ og alla tijma ad jata ꝫ vidurkieña ad Jeſus ſie ǫllum Eing⸗ſum og Mǫñum ædre/ og huorſu myk lär Gæfur ſem eirn edur añar hefur þeiged af Gude/ þa er hañ þo ecke añ ad eñ ſo ſem Dupt og Aſka hia hon um ad reikna.

Fram̃veigis ſkulum vier vita/ ad þo þad ſie ad ſoñu mykels Lops vert/ ad Johañes er ſo ſtadfaſtur og alvarleg ur j ſiñe Jatningu vm Herrañ Chriſt um/ þa ſer hñ þo hier wti ecke ad ſijdr ville þar hañ varnar honum ad ſkir⸗aſt/ og þar pyrer talar Endurlauſnar eñn vor ſo til hans og ſeiger.

Latt þu nu ſo vera/ þt ſo hæfer oſs allt Riettlæte vpp ad fylla. Sieaum nu hier til af Dæme Johañis/ huad ſn⸗arlega Mañeſkiañ/ Jea/ lijka vel hin er Heilǫguſtu Meñ/ kuña ad falla ꝫ porſia ſig/ ſafavel j þeim Hlutum ſem ſynaſt

synast ad hafa hid mesta Gudræknis ar skyn og asynd/ Og geingur þad hier er ei olijka til fyrer Johañe so sem fyrer S. Petre þa hañ villde ecke/ ad Herrañ Christur skillde þuo sijnar Fætur/ þä suarade hañ honum z sagde/ þuoe eg þig ecke/ þa hefur þu ei Hlutdeillo medur mier/ Joh. 13

Og hỏþum vier þad hier wiöþ ad læra/ Ad oss ber huorke nie hæfer ad grenslast smásmuglegá epter huörium Hlut/ edur leita epter Orsokiñe alls þess sem Gud skipar / wthein ter edur skickar/ helldur eiginn vier ad epterfylgia skyllou þess Embættis sem oss er a Hendur faled / eñ befala hitt añad Gude.

Nu sem Johañes heyrer af Herrañum Christo/ huad myked þar sie i hwfe vm/ ad hañ láte skijra sig/ þá seiger Gudspiallamadureñ/ Ad hañ hafe láted þad epter honum.

Þetta er nu su riettá Guds Barnä Art z Eiginlegleike/ ad vilia glaxnast

hliſda Gude/og hans Syne Jeſu Chr
riſto/ſlijka vel ỹ þui ſem yffergeingur
þarra Skilning. Dæme hier vppa
hoſum vier a ſialfre Herrans Chriſti
Moder/þui þa Eingellin bodade hen
ne Gietnaden hans/ þa ſijneſt heñe þ
ſo ſem omogulegt/ ſpyr þar fyrer ad
huorneñ þad kuñe ad ſkie/ Enn ſem
Eingellin vnderuijſar heñe þad/ þa
giefur hun ſig ſtrax til Frids/og ſeig
er/verde mier epter Orde þijnu. Eins
lijka þegar S. Petur villde ecke ad
Herrañ ſkyllde þuo ſijnar Fætr(ſo ſem
ſtarꝛ var aminſt)og hañ heyrde huor
su Chriſtur ſuarade ſier/þa ſagde Pe
tur ſamſtundis/ad hañ ſkyllde ecke all
eináſta þuo Fæturnar/helldur ꝛ ſo Hē
ndurnar og Hofudid. Þuilijk Hlydne
a ꝛ ijd ad verda fundeñ/hia þm ſ vilia
vera ỹ Guds Barna tolu/ſ er/ad þeir
giefe allañ ſiñ Vilia vnd Guds Vil
ia/Vm þeſſa Hlydne talar Samuel ỹ
1 Sam. B.15. Meinar þu(ſeiger hñ)
vid Kong Saul / Ad DROTTIN
hafe

hafe list a Offre og Breñefornum/so sem a þui ad hlyda Raust DROT-Tins/Sin/Nydne er betre eñ Offur.
Nu vilium vier taka oss wt af Ek ñrneñe Herrans Christi j Anne Jordan/ Eina miñisstæda og agiæta Huggun/huor ad er þesse/ Ad vær skulum vita/ ad vor blessade Endurlausn are liet skijra sig af Johañe/a þui þriþ tugasta og sijdasta Fagnadarog Utleidslu Are Gydinga/ Þui sinum til Gydingar voru jnnleidder / þad Fyrer heitna Landed/þa lided var fra Heimsins Skopun 2493 ar/Eñ Christi Skijrn skiede 3992 arum epter Ver alldarenar Skopun. Þar fyrer hlei pur sa tijme/fra þui Folked var j Canaans land jnleidt til 30 Fagnadar Aara. Nuar af vier hefum þa Huggun/ ad Christur sie komiñ hing ad j þeñañ Heim/þess erendis/ad hañ wtuegade oss/fyrst hier j Rijke Nad areñar/og sijdan añars Heims j Rijke Dyrdareñar/þad eilijfa Fagnadar

Ar/edur wtlausnar ær. Enn wtlaa-
usnar Aared edur Jubilæred hafde
þann Riett og Fryheit / ad a þui sa-
ma Aare var allt laust læted / þa vo-
ru Þrælarner lauser giefner af sijnum
Þrældome/ og huada Gotz vndan eitt
um hafde þangad til geinged/ þui var
þa aptur skilad.

Eins ꝛ| sama mæta høfū vier hier
ꝛ eirnen vort Lausnar ꝛ nædar ær/ þui
ad vorar Synder eru huldar og Miß-
giørder vorar eru nu insigladar/ Yper
trodslunum er nidursockt og dreckt i
Hafsins diwp. Lætum oss þui
af Hiarta længa epter þui sydasta ꝛ
eilijfa Lausnar og Glede ære/ sem vor
blessade Endurlausnare hefr oss aprek
ad a Himnum vppe/ med sifie allra hei
løgustu Skijrn/ og sifie dyrmætu Forþi
enust u/ Pijnu og Dauda/ med sinne
Sigursælu Vpprisu/ og dyrlegre Him
nafør.

J ødru læge/ høfum vær og eirnen
þa Huggun hier wt af/ Ad þar Herr
ann

ann Christur/ styrgur hier sialfviliug lega ofan j Ana Jordan/ þa vppþyll er hañ mióg huggunarsamlega þa fy rermyndan vm Sattmaals Ørkena/ huør þa ed boren var wt j Ana Jordan/ þa hindradest Arenar rensl/ so J sraels børn feingu þrijan gang/ z hæ ttulausan Veg og Gotu/ jnn j þad Fyrerheitna Landed/ epter þa Mædu somu Pilagrijms reisu/ ꝫ þ haꝼde ꝛc j Eydemorkiñe j heil 40 ar. Eins skiedur hier/ ad þar sa lifande Naadar stollenn vor DROTTin Jesus Chr istus stygur j Midia Jordan ad las ta skijra sig/ Þa ridur hann oss þar med Veg og Gotu jnn j þad eilijfa Fodurlanded. Hañ stiller og eirnen z til baka drijfur/ alla Strauma z Va tnsgusur Gudlegra Reide / z lætur ecke Vatnsstrauma þess rauda Dre ka og Dioþuls oss ꝫpdiupa verda/ nie helldur Bylgiur Motgangsins d nia edur brw a ypper vora Saalu/ þa ier ad eins mænum vorū Augum til h ns

 og

og holldum ofs vid hann/ Og skal h
so sa et vera um þa þyrre Greinena.

ENN ÞA JEsus var skijrdur/ stie
hn̄ jafnskiott vpp wr Vatnenu. Og
sia ad Himnarner lukust vpp yfer hm̄.
Þetta er nu þad fyrsta Dasemdar verk
sem skiede j Skijrneñe Christi. Vier
er lesum j Gen. B 6 z 7. Cap. Ad þe
gar Gud DROTTinn sa Illsku Mañ
kynsins/ Og ad Jorden̄ var full Rang
lætis/ Þa hafe han̄ ydrad þess/ ad hn̄
hafe nockurn tijma skapad Mañen̄/ z
hafe þess vegna vpploked Gluggum
Himensins/ z læted rygna yfer Jord
ena þui ognarlega Vatnsfloode/ j hu
oriu allt Mañkyned foorst/ ad vndan
teknum Noa og þeim ætta Sælum
sem med honum voru j Orkeñe/ Enn
þar ad Himnarner lukust vpp yþer Ch
risto/ þa han̄ skijrdest j Jordan/ þar
til voru adrar langtū Gledelegre Ord
saker.

Hin fyrsta var su/ Ad vær sem skijrd
er erum j Nafne heilagrar Þreñing
ar.

ar/Og trwum a Jesum Christum/ skilldum þar af vita/ ad Jesus hefur áprekad og wtuegad oss fryan og full komlegan inngang i Guds z Jesu Christi Rijke/ Þui so seiger sialfur Endurlausnaren vor til Nicodemu. Sanlega sanlega seige eg þier/ Nema suo sie ad einhuør verde Endurfæddur af Vatne og Anda/ þa kan han ecke jnn ad ganga i Guds Rijke Joh. 3.

Dæur Ordsök þar til/ Ad Himnar ner lukust vpp yfer Herranum Christo/ þa han skijrdest/er þesse/ Ad bæde þu og jeg/sem skijrder erum i heilagrar Þrenningar Nafne/meigum vera fullvisser þar vppa/ad nær sem hellst vier giorum Bæner vorar til Guds/ og bidium han i Jesu Nafne vm þad sem Gude kann ad vera til Dyrdar/ eh oss til Sal^r Velferdar/þa vill Gud opna Himenin fyrer vorre Bæn og Bænheyra oss/og vm sijder þa þar ad kiemur ad vær eigum ad strijda vid Daudan/ þa munum vier fa ad sia

Nh v Him

Himenenn openn fyrer oss/og Jesum Ch
ristum standa til Guds hægre hand-
ar/reidubwenn til þess ad taka vid Sa
lum vorum/ og þetta er nu hin allra
stærsta Nad/ sem huorium og einum
Riettchristnum Manne veitist fyrer
Skijrnena Herrans Christi.

Annad Dasemdarverkid sem skiede
þa Christur skijrdest/er þad/. Ad Jo
hanes sier heilagann Anda niduerstij-
ga sem Dwfu/og yfer hann koma.

Endurlausnarenn vor Jesus/þa hn
wissende sijna tolf Lærisueina til ad
giøra Kraptaverk j sijnu Nafne/þa
talade hann til þeirra þessum. Amin
ingar Ordum seigiande/ vered forsial
er sem Hoggormar/enn einfallder sem
Dwfur Matth. 10. So skulum vier
vita/ad þar heilagur Ande kiemur hi
er yfer Herrann Christum j Dwfu lij
ke/þa hefur þad ecke helldur skied ann
Ordsakar/helldur skiede þad til eins
stadfastlegs Vitnisburdar þar vm ad
Jesus være sa hinn same/hia hvønn vier
i                                    mættum

mættum piña þañ riettu Fromlrika/ Mildde og Einfalldleika vid oss aum ar Syndugar Mañeskiur/ huors veg na hañ Vitnar so vm sig sialfur hia Matth. 11. seigiande/ Læred af mier þui eg er hoogvær og af Hiarta lijt-latur.

J añañ mata hofum vær þa Hug gun af Nidurstigningu heilags Anda yfer Lausnarañ vorn Jesum Christum Ad vier meigum vera visser og vepad er þar vppa/ ad hañ hefur aprekad oss þeñañ sama goda Anda/ og ad hann vthelle honum yfer oss i Skijrniñe/ so hañ skijre oss med sijnum fiofolldum Aftgiofum/ so sem sa Syrlendske Naaman vard fiostiñum yferþuegenn j Anne Jordan.

Eñ Aminning su sem vær meigum taka oss þar af/ ad Heilagur Ande li et sig siaa/ og var wisendur yfer Christum j Skijrneñe j Dwfulijking / er Ps. Fyrst/ hûneñ þm eige ad vera vær ed/ sem vppa Christum eru skijrder.

N h vi Sem

Sem er j þan̄ mata/ad lijka ſuo ſem þad/ ad Dwþan elſkar jafnan̄ Frid/ hefur eckert Gall nie beyſka Reide/ er Hreinferdug/Skijrlijf og einfolld/ ſo ber ollum Chriſtnum Mon̄um/ ſem Endurfædder eru þyrer Vatn og heilagan̄ Anda/ad vera einfolldū/elſka Frid og Samþycke/Ja/Oſſ ber ad vera hreinum z ſkijrlijfum/ Trwlindum og áſtundunarſomum til alls hins goda/ en̄ lykiaſt ecke þeim Þroþgiornu Hrøþnum/ ſpottſkum Hegrum/ edur Opacklatum Gaukum.

Þar næſt ſo ſem þad Dwfurnar/þa þær tijna Korned ſier til Matar/þa leſa þær wr Kornenu þad ſem hreinaſt er/en̄ ſkilia hitt þad ohreina epter/ Item/ſo ſem þad Dwfan̄ dreckur ecke giarnan̄ vtan̄ hreint og oſaurgad Vatn/ſo ber oſs og einnen̄ ſem ſkijrder erum/ ad hallda oſs til þeſs hreina og Omeingada Sædis Guds Heilogu Orda/og til þeſſ lifanda Vatns ſem wt flytur af Nadarbrun̄enum DRottins

DRottne vorum Jesu Christo.

J sijdasta mata vilium vier taka oss þ hier til Lærdoms/ad lijka s̄ þad ad Dwfan̄ sem̄ Noe wt sende þa Flo̊ded took ad þuerrá/kom̄ aptur j Ørkena med Oliukuist j sijnu̇ Nefe/huad ed var so sem̄ eitt Fridar z Nadar Tekn. Eins skulum̄ vier vita/ ad gio er su Himneska Dwfan̄ sem̄ er Heilagur Ande/hun̄ flitur oss good Tijden̄ de med sier þa vier skijrustum̄/ sem̄ eru̇ þesse. Ad Gud sie nu sáttur ordeñ vid oss/og ad hans Reide sem̄ yfer oss/ z á moote oss var/hafe nu̇ teked enda/ fyrer huoria Heilags Anda Huggun̄ oss bære ad þacka Gude vorum̄ oaflát̄ fanlega.

Þad þridia og sijdasta þurduverked sem̄ skiede j Skijrnenne Christi/ þa er þetta/þar Gudspiallamadureñ seiger/ OG siaa/ad Rødden̄ af Himne sagde/ Þesse er Sonur min̄ Elskulegur j hu̇riu̇m mier vel þocknast.

Spamadureñ Amos talar so j sin̄

 áf

ur Spadomsbookar 3 Cap. Leoned (seiger hañ) Dskrar/ huor skyllde ecke ottast? DROTTin/ DROTTinn talar/ huor skyllde ecke Spaa? Staum til/ hier talar nu sa eilijfe Gud ofan af Himnum/ skylldum vær þa ecke giæta ad hans Ordum Og bevara þau og yfervega/ med allre Kostgiæfne j vorū Hiørtum? Þesss Guds Fødurs Vitnisburdur vm siñ Eingietna Son hañ er wijdreigiñ bæde æ Psalme Davids þeim odrum/ þar so stendur/ DROTTiñ hefur talad til mijn/ Þu ert miñ Sonur j Dag fædda eg þig/ sem og eirneñ af Spadoms book Esa. 42 Cap. Sia þu (seiger Spamadureñ þar) þad er miñ Þion eg hé lld honum vid/ og miñ sa hiñ wtvalde a huorium mijn Saal hefur Giedþekne. Eñ Elskulegañ kallar hann hier siñ Son/ med þui ad hañ er af Verulegre Elsku/ eirn Gud med Fødurnum/ huor ed er su ædsta Eining/ og hin oendanlegasta Elska. Hier af

af hofum vier þau Not/ ad med þui vor Medalgaungu Madur Jesus Christus/ kallast hier elskulegur Sonur Fodursins/ so verdum vier og eirnen̄ j þeirre heilogu Skijrn/ stadfester til ad verda Guds og Heilags Anda (sem oss verdur þar giefen̄ og meddeil dur) elskuleg Ofsborn. J an̄an̄ máta/ So sem þad ad Faderen̄ vott-ar hier/ ad hn̄ hafe Hiartan̄lega Vel þocknan a sijnum Syne/ so meigum vær oz eirnen̄/ hugga oss þar vid bæde j Lijfe og Dauda/ ad med þui ad vier erum j hans Nafne/ og uppa hans Nafn skijrder/ þa erum vær og so vel þocknan̄leg Guds Børn/ med þui han̄ hefur giort oss sier þocknan̄lega i sijn um elskulega Syne. Nu/ vær þöckum Gude fyrer þessa Skijrnar Nád/ og bidium fram̄veigis ad han̄ vilie hallda oss z vorum Epterkomen dum under þeirre somu Nád allt til Veralldarin̄ar Enda

Amen/ Amen.

N h viij Fyrsta

## Fyrsta SuñuDag j Føstu.

Evange. Matth. 4.

DA var Jesus leiddur af Anda á Eydemørk/ vppa þad hañ freystad ur yrde af Dioflenum. Og þa hañ hafde fastad fioruttiger Daga og fioruttiger Nætta/ Hungrade hañ. Og Freistarenn gieck til hans og sagde/ Ef ad þu ert Son nur Guds þa seig þu ad Steinar þesser verde ad Bräudum. Huorium hañ sua rade og sagde/ skrifad er. Madurenn lifer ecke af einusamañ Bräude / helldur af sierhuøriu Orde þui sem framgeingur af Guds Muñe. Þa took Diøfull eñ hañ med sier j Børgena Helgu/ og sette hñ vppa Musteris bustena/ Og sag de til hñs. Ef þu ert Guds Sonur fle ig þier hier ofan af/ þuiad skrifad er/ ad hañ mune bioda Einglum sijnum vm þig/ ad a Hondum bere þeir þig/ so þu steiter ecke Foot þiñ vid Steine. Eñ Jesus sagde til hans/ eñ aptur er skrifad/ eige skalltu freista DRottins Guds þyns. Og eñ aptur flutte Dioffullen hñ

med

med sier vppa eitt ofurhætt Fiall/og sẏn̄de honum øll Rijke Veralldareñar/ og þeirra Dyrd/Og sagde til hans/allt þet ta mun eg giefa þier/ef þu fellur fram̄ og tilbidur mig. Þa sagde Jesus til hn̄s Far j burt frá mier Andskote/þuiad skr ifad er/DRottin̄ Gud þin̄ skalltu tilbi dia og hønum einum þiona. Þa forliet Dioffullen̄ han̄ / Og sia þu ad Einglar komu til hans og Þionudu hønum.

J Fyrre Samuelis Bokar 15 C. Er skrifad vm Saul Kong/ Ad han̄ hafe af Natre ofsokt Da vid/og þad bæde leinelega og openber lega/ fyrer þan̄ skulld/ad Gud hafde kastad hønum fra sier/vegna sinar O hlydne/en̄ wtvaled David aptur i hn̄s stad/ og læted smyria han̄ til Kongs En̄ þess meir sem Saul ofsockte Da vid/þess meire Vn̄ustu hafde han̄ af Folkenu sem han̄ ætte yfer ad styra: En̄ huorneñ gieck þad til vm̄ sijder fyrer Saul? Ritningen̄ seiger hann
 hafe

hafe falled a sitt eigid Suerd sier til bana. Eins lyka gieck þad og suo til fyrer Diocletianum / hañ visse þad vel/ad hañ munde vm alla Eilijfd/ verda fra Gude burt rekeñ og wtskwf adur/ Eñ Nerrañ Christum þar a mote smurdañ vera til eins æfuñlegs Kongs og Kienemans /þar fyrer spar ade hñ ecke mz allre siñe Styrnd z Kostnoſku/ad veita hönum Armæser z preiſta hans/ so sem sia ma af þessa Dags Gudspialle/og þad sama ecke einu siñe/helldur j heilat þriar reisur.

J heilagre Ritningu verdr miñst á marg" hard" z snarpar Holmgaungr/s̄ hallonar hafa verid bæde a Himne z̄ Jordu. Mykel Orusta hefur þ̄ mätt vera sem þar skiede á Himnum/ þegar Hofudeingelliñ Michael bard eſt vid Drekañ / Apoc. 12. Ecke var þad hëllour lijtel Einuygis Glijma sem Guds Madur Job þreitte vid Andskotañ/þa hañ sloo hañ med Kaunum allt fra Huirfle og til Ylia

Job

Job 1. Judith og Holofernes geinguu
a Hoolm saman/ Item/ David z Go
liath/ Allt þetta voru ad sönu mikel a
þrif sem þesser reyndu sijn á mille/ en
þo hefur eingen Orusta / eckert Ein
vijge vered so hardt z mijkilþeinglegt
so sem þad/ Þegar Diöfullen var suo
diarfur/ ad hann vogade ad bioda sialf
um Guds Syne a Holm/ Eingen Or
usta hefur og helldur betre vtdrif z eit
dalyckt þeinged enn þesse/ Þui i þessu
Strijdenu var yfervunnen sa sterke Her
vopnadur/ sem vm kring geingur sem
grenjande Leon/ so viet høfum nu þyr
er Jesu Blessada Sigurvijning feing
ed Frid/ z meigum vera oþrædder þar
vm / ad Diofullen gietur ecke skad
ad oss framar meir med sijnum Freist
ingum. Seigium þar fyrer med Post
ulanum/ Lofadur sie Gud sem oss hef
ur Sigurenn og Fridenn gefed/ fyrer
vorn Frelsara Jesum Christum.

Vær vilium i Jesu Nafne yferfar
a Textan/ og þad i 2. Smägreinum

1 Og er hin fyrre vm Atvik og Kriñ gumstædur/þær sem leida til þessarar prefalldrar Freistingar sem Herrann Christur leid j Eydemørkuñe.
2 Añar vm sialfar Freistingarnar, med þeim fleire Atuikum sem þar ad hnyga.
Gud giefe oss þetta ad meiga so yfervega/ ad þad verde Gude cilþnum til Lofs/eñ oss sialfum til Saalargagns j Jesu Nafne.

HEent er oss fierdeilis athugande j þessu fyrsta Greinarkorne. 1. Tijmeñ a huorium Herrañ Christur ha fe leiddur vered vnder þessar þungu Freistingar. 2. Af huorium hañ ha fe leiddur vered. 3. Huor vered hafe Stadureñ sem hañ þolde þessar Freistingar j.
Pad Tijmanum vidvijkur / þa er þ auðmeded af þessu Ordkornenu sem hier stendr j Vpphafe Gudspiallsins/ Þ A / Ad pad hafe vered strax epter Skijrn Christi j Añe Jordan/ þa hañ var Vijgdur af sijnum Himneska Fød ur

ur/til sijns Predikunar Embættis/mz
þeirre openberre Vitnisburdar Rauſt
Þesse er miñ elſkulegur Sonur. z et+
Þegar nu Diofulleñ heyrer þessa Ra
uſt/og Vitnisburd Fodurſins vm Ch
riſtum/ og hañ ſier þad Himnarner
lukaſt vpp yfer honum/ og heilagur
Ande fer ofan yfer hañ j Dwfu lijk=
ing/Þa þeinker hañ ſtrax med ſier/ad
viſsulega mune þesse ſem hier nu ſkijr
eſt j Jordan vera þad rietta Kuiñuñ
ar ſæde/z ſa fyrerheitne Meſsias/vm
huorn ſpaad hafe verid/ad hañ ſkyllde
ſundur meria Høggormſins Høfud/
þar fyrer forſoomar hañ ſig ecke/hell
dur giezur ſig ſtrax til ad preiſta Ch
riſti/æn langs vndandrættar. So ſiaũ
um vier hier af/vid huoriu Riettrwud
Guds Born haþa ad bwaſt hier j He
ime/ſem er/ad þau verda meir og ꝑra
mar af Dioþlenum aſockt/eñ þeir hi=
nu Ogudlegu/þui hañ þikeſt alla rei=
du hafa þa j ſijnum Klom og Nete
fangad/og giefa komed þeim wr eirn
Ji iij re ſynd

re Synd j adra þa hañ vill. Til Dæmis ad taka / ef eirn stadur eda Kastale giæfe sig viliuglega á Nendur þeim sem a hann villde herja/ þa þirfte sa same ecke leingur ad asækia hñ med Striide/Skotum eda Drunum. Eins er þui og vared fyrer þeirre Mañeskiu/sem so er Nerteken af Dioplenum/ad hun er alla reidu ordeñ hans Þy og Þræll/þa þarf hñ ecke leingur ad þuinga hana eda skiota siinum Freistingar Piilum j hennar Hiarta/þui hñ veit ad hun er alla reidu ordeñ siin eigeñ Eign. Eñ ødruviis vill þad tilganga fyrer þeim s j þeirre heilogu Skiirn hafa suared Gude Fødur/Syne og heilogum Anda/Trw og Hollustu/eñ afneitad Dioplenum og øllum hans Verkum/Di spulleñ sier þa ecke j Fride/ og lætur alldert af ad opsækia þa/huørke Nott nie Dag/so hañ giete komed þeim fra siinum Christendome/Moshiika z þeg ar eirn sterkur Striidskappe sæker a-
kaf

akaßlega epter ad nm einum Stad ed ur Festingu. So meiga þa aller þr sem Gudrækelega vilia lifa j Christo Jesu/hwast vid Freistinguin og Ofsoknum/epter þui sem Postulen seger. 2 Tim. 3. Item seiger Syrach suo/ Barn mitt / Villtu Guds Pionustu madur vera/þa bw þig vid Freistne. Cap. 2. J einu Orde ad seigia/ Huor ier hellst sem eru lijkþader Herranu Christo / fyrer þa Heilögu Vatns Skijrn/ og þueiged hafa sijn Klæde j Lambsins Bloode/ þeir hiner somu hafa sier æ̃ijd ad vænta einhuorrar Hreckuijse og Illskupars af Diostenum/so sem vær meigum hier wtþryckelega sia a Herranum Christo/huored strax epter þad hañ var Skijrdur/ þa var hann freistadur. Þar fyrer skyllde eingeñ so þeinkia edur sier fyrer Siñe setia/þo Diofullen freiste hans i eirn edr annan maata/ ad hañ sie þ fyrer af Gude yfergiefen/helldur skul um vær renna Hugskots Augum vor

 um til

ųm til þeſs ſem ſialfur Guds Sonur vard ad lijda i Eydemorkeñe/þa hañ var freiſtadur/Ecke var hañ þar fyr er af ſijnum Himneſka Fódur yfergie beñ. So yfergiefur og ecke helldur ſa Himneſke Faderen oſſ/ nær vier verdum freiſtader/ſo framt ſem vier hølldum oſſ faſt vid vorn Sigurviñara Je ſum og hans heilaga Ord/ helldur mun hañ læta Freiſtingena ſva hañ enda/ad vær gietum vel ſtadeſt.

Nier a mote ſkulum vær þad varaſt ad þo ſo ſie/ad vær j Skijrneñe ſieum ordner Guds Born og Erfingiar Himnarijkis/ſo ad Dioſullen hefur ecke framar neitt med oſſ ad giøra/ þa lijf um þo ecke Oggalauſer edur j Athugaleyſe/helldur ſkulum vær huxa þar um/ad þetta Lijf er ecke añad eñ ſtandande Strijd og Baratta. Joh. 7:

Þar næſt ſkulum vier hier læra/ad ſo ſem þad ad Dioſullen freiſtade Chriſti/ſtrax þa hañ ſkyllde byria ſitt Prædikunar Embætte/Eins giører hañ

eñ

eñ j Dag/hañ afræker þa hellſt Og freiſtar þeirra/ ſem Gud hefur ſett til hærra Embætta/ſo hañ giete hindrad þa/fra þui ad þiona Gude og hans Chriſtne/ þui hñ veit þ vel/ ad ef hñ gietur fellt þær hæu z ſterku Eikurnar/þa mune ſier eptera ſeirna/ þr autlauſt vera/ad ſla nid ur til Jardar Greinernar og þa yngu Kuiſtena.

Þad er ſkrifad vm Leoned ad þad rædeſt j ſijdra logum a þad ſem veikt og ſlæmt er/Eñ þar a moote ſækie þ epter ad reina ſijna Orku og Aflsmune a ollu þui ſem ſterkt og Rambyg gelegt er/huort þad giete þad ſundur broted z moluad. Eins hur Andſkotañ ecke vm ad ſtrijda ſo freklega a þa aumu z lijtelmegnu j Chriſtneñe /helld ur þa ſtooru /ſem ſetter eru til ad ſtiorna z ſtyra odrum vndergiefnum/Jaa/ þeſs meira og ſtærra Nafn og gott Rikte ſem eirn hefur/ þeſs agiætare er Dioffulleñ ad fello hañ/ ſo ſem auglios Dæme eru til bæde forn og

Ji v ny.

ny. Aaron sa ypparste Prestur huorn sialfur Gud hafde utvaled/ var morgum merkelegum Gafum pryddur/ so sem Ritningen vottar/ somt gieck Sathan honum so nærre/ ad hn̄ kom honum til Afgudadyrkunar. Eins lijka freistade hn̄ Davids z an̄ ara mykelshattar Mañа j þeirre Veralldlegu Stiett.

Framar hliodar suo Textiñ. ÞA var Jesus leiddur af Anda a Eyde mørk. Ecke a þetta so ad skiliast ad Diofullen̄ eda illur Ande nockur hafe leidt Herrañ Christum a Eydemorkena/ helldur var hañ leiddur þangad af heilogum Anda/ so sem Gudspiallamen̄erner Marcus og Lucas votta. Eñ ecke skiede þesse Leidsla heilags Anda med þeim hætte/ ad hn̄ tæke hañ naudugañ med sier j Lopt vpp/ helldr veik Endurlausnaren̄ vor þangad sialfviliugur af sierlegre Verkan heilags Anda.

Niet af lærum vier þad/ huorneñ Gud

Gud plagar ad høndla vid þa s̄ hn̄ vill vpphefia til mykels hattar z vik fugra Embætta/ Sem er j þan̄ mata ad han̄ reiner þa fyrst z profar j ad-skilianlegan mata. So reynde han̄ Joseph j þuı́ ad han̄ var settur j Fan gelse ꜳdur en̄ han̄ var vpphafen̄ j E gyptalande. David var j Eyde mørku z geymde Niord/ þar til hn̄ var smurdur til Kongs/ og suo marger adrer.

Þar næst skulum vier læra aþ wtlei dslu Herrans Christi j Eydemørkena/ Þad/ ad so sem a Forlıkunar Natiid þess Gamla Testamentis / var fram̄ leiddur eirn liþande Hafur vppa huo-rn ad lagdar voru allar Folksins Syn der / og var þar epter j burt sendur j Eydemørku. Leuit. 16. Eins lagde Gud allar vorar Synder vppa vorn DROTTin̄ Jesum Christum/ Esa. 53. So ber han̄ nu allar suorar Syn der a sier wt j Eydemørkina og fleyg er þeim j Nåþsins Diwp/ Mich. 7.

so þeirra verdur ecke hiedan af minst
vm alla Eilijfd.

Christur hefur og suo/ med þessare
sinne Vtleidslu j Eydemorkena viliad
tilreida oss Veg til Paradijsar/ huad
añ vorer fyrstu Forelldrar voru wtreck
ner. Vær ættum vm alla Eilijfd
wtelucktᵃ ad vera/ fra Samfielagskap
Guds og hans heilogu Eingla. Eñ
þar þuert a moote ad hafa vmgeing
ne med Villudyrum/ og þeim Eluijsku
Hoggormum/ Eñ Herrañ Christur
geingur hier j vorn stad/ Og er j fioru
tijge Daga og 40. Natur a medal
Villudyra/ wtelucktur fra ollum Mo
ñum/ so hañ kiæme oss aptur j Sam
fielag og Selskap Guds og hans hei
logu Eingla. Vær hofdum og eir
neñ þad forþienad/ ad vær skylldum
æfenlega vera þyrer vtañ alla Hugg
un og Hugsuolun Guds og Manna
Þar fyrer er nu Christur hier Hugg
unarlaus einsamall/ hafande onguañ
þañ sem hañ kuñe sier til ad hallda
vppa

Vppa þad hañ afrekade oss eilijfa Huggun hia sijnum Manneskia Fødur.
Vidvorun høfum vier oss hier af ad taka/ sem er/ Ad vær giefum oss ecke sialfkrafa/ edur af vorum eigenn Dærlegheitum fram j Freistingar/ edur til Strijds vid Dioffulen. Nell dur skulum vier bijda þangad til/ ad sialfur Guds Ande leider oss wt j Eydemørkena / þad er/leggur oss Kr oss og Freistingar vppa/ So þurfum vier ecke ad tuijla/ ad sa same Guds Ande sem hefur leidt oss til þessa Strijdsins/ hañ mun z so standa med oss / z styrkia oss.
Vær høfu oss z so þa Huggun hier wt af ad taka j huørskonar freistingum og Motlætingum/ ad Diøfullen gietur ecke j þui enu minsta giort oss mein /nema sialfur Gud leyfe hønum þad/huad nooglega bevijsast af Dæme Jobs. Og hia Mattheum j 8. Stendur ad Dioflarner sem Herran rak wt af þeim Diøfuloda j Gergese
J i vij na lands

ña Lande/ haþe ecke þorad ad ſnertā Suïnahiørdina edur þara j hana/ vtan Jeſus leyfde þeim þad. Þat fyrer meigum vier j alla ſtade øhrædd er vera þyrer Dioþlenum og hans Þyum og Þrælum /ſem ad eru Gall drameñ og þeir ed fara með Særing ar & adrar øleiſelegar Diøfuls Vppa þindingar/Þui þott aller Dioþlar væ re j eirn Hoop ſaman komner/þa me gnudu þeir þo eckert a moote oſſ/fram ar eñ Gud villde þeim leife tilgieþa/ Þuiad øll vor Hefudhaar eru taleñ/& þar fellur eckert af þeim a Jord añ Vilia þſſ Himneſka Fodurſins/Matt hei: 10.

Stadureñ j huørium Endurlauſnar eñ vor leid þeſſar ſijnar þungu Freiſt ingar/ſeiger Gudſpiallamadureñ ver ed hafe Eydemørk/ Eñ huør þeſſe Eydemørk haþe vered/ kieñur ecke øllum eitt ſamañ/oſſ vaidar & ei helld ur vm/þar epter ad grenſlaſt/Eñ þad er audreaded af Ordum Gudſpiallaz

manſ

Maͤttins Marc. j 1. Cap. Ad þad hefur verid sodaň eitt Eydeplats sem eingeň Madur hefur verid edur ꝫbwed þui haň seiger ad Herraň haȝe vered þar med Villudyrum.
Hier kaň einhuor ad spyria/ huar fy rer Herraň hafe helldur verid freistad ur j Eydemørkiñe/ eň aňarstadar?
Oſſ til Lærdoms er þad skied/ So ad vier skylldum þad þar af læra/ Ad hu orier hellst sem elska møg Einsetur og taka sig j burtu fra odrum Moñ um/ til þeirra helldur Dioꝑulliň sig allra mest/ sæker epter ad freista þeir ra og koma þeim j Olucku. Sicaum til/ so leinge sem Adam og Eva voru bæde til samans huort hia odru j Pa radiſſar Alldingarde/ og høfdu sijna Rædu vm Gud z hans heilaga Ord/ þa þorde ecke sa Heluijske Hoggorm ur ad nalægiast þaug/ eň sem Adam Spasierade lijteň Spøl j burt/ og Euva vᵉ einsømul epter/ sie/ strax gaf Dioꝑulleň sig til skrafs vid hana/ Og
 talads

talade so um fyrer hēnē med sinē Lyge
Tungu / ad hun fiell i sargrætele-
ga Eymd og Hörmung. Þa Da-
vid gieck einsamall vppa Þakenu a
sijnu Hwse/ þa freistade Diøfullenn
hans/ og kom hm̄ til ad drya Hoor.
2 Sam. 17. Þar fyrer nær sem
hellst vær þiþnum i Hiarta voru z Sa
lu/ til nockra Diøfulsins Freistinga/
þa forduftum ei nveru z Jdiuleyse/ og
þeinkium þar vppa/sem Salomon sei
ger i sinē Predikunarbook 4. Vei þē
im(seiger hañ)sem eirn er/þui nær
hm̄ fellur /þa er þar eingiñ ō hm̄ reise
a Fætur aptur. Nu ef vær villū
vita fyrer huöriar Ordsaker/ad Herr
añ Christur hefur viliad lata Diøf
uleñ freista sijn/þa eru þar til flerdeil-
is þriar Ordsaker.
1 Hin fyrsta er. sū(Epter þui sem
hiñ heilage Hilarius framsetur) Ad
eingeñ skyllde Vggalaus eda athuga
laus vera vm sig i Heime þessum/ huør
su heilagur og mykels hattar sem hm̄
være

værе/ þui hafe Sathan ecke skamast
siin vid/ad reɗast a Herran Christum
til ad freista hans/ þar han̄ visse þo
fyrer vijst/ad han̄ var Guds Eingiet
in̄ Son/skyllde hn̄ þa ecke myklu diar
fare vera vid oss äuma Vesälinga?
2 Hin̄ heiläge Augustinus leggur
hier til þessa Ordsok/ z seiger/ ad Ch
ristur hafe þess vegna lated Andskot
an̄ freista sijn / Ad han̄ kiende oss m̄z
sijnu Dæme/ huør Vopn og Veriur
vær skylldum hafa j giegn hønum/so
vær kynnum ad hallda Sigrenum/Þui
ad so sem þad ad eitt Kapteirn edur
Strijdsherra/ kiener sijnum Soldatū
sem ovaner eru vid Strijded/huørnen̄
þeir skule diarflega ganga a moote
sijnum Ovinum. Eins lijka kienna
þessar Herrans Christi Freistingar
oss/ sem erum andleger Strijdsmen̄/
huørnen̄ þad vier eigum a standa a
mote Elldlegum Pijlum þess hins
Vondа.
3 J þridia lage/ Villde Herrann
Kk Christ-

Christur reina Freistingarnar/ vppa
pad/ ad hañ hepde Medaumkan og
Medlijding med oss pa vær verdum
freistader/og ad hañ huggade oss/ og
kiæme til hialpar a Nørmungartijm
anum/epter pui sem Postulen seiger/
Ebr. 5. Vier hoþum ei þañ Byst
up/ sem ei kañ samptijning ad hafa
med vorum Breisleika/ helldur þañ
sem þreistadur er a allañ hætt lijka
sem vier/po an Syndar.
Pad er skrifad vm hiñ H. Anthoni
um /Pa hañ hafde yþerstaded marg
ar og þungar Freistaner /pa hafe hñ
spurt so z sagt/ Æ Kiartans Herra/
huar varstu/pa eg var j þessum mijn
um Naudum og Preyngingum?
Huar til ad Herrañ skyllde hafa suar
ad honum a þeñañ hætt og sagt/Jeg
var i kringū þig /og hugde ad huørn
eñ þu hielldst þig /so eg mætte hialpa
þier. Og þessar eru hinar fierlegu
stu Ordsaker/huar fyrer Herrañ villde
lijda Freistingar Andskotans vorra
vegna

vegna j Eydemørkinē.
Eñ framar stendur so j Textanũ: OG þa Nañ hafde fastad fiorutijg er Daga og fiorutijger Nætta/ Hung rade hñ. J þessum Ordum er oss fyrst þad athugande/ huorneñ Herrañ vor Jesus Christus hafe vered vnderbw eñ þa hann vard freistadur af Diøf lenum: Gudspiallamadurinñ seiger/ad hann hafe fastad j Fiorutijge Daga og Fiorutijge Nætta.
Nier af lærum vier þad/ ad nær ꝫ hellst vær eigũ ad strijda a mote And skotans Freistingũ/ þa eigum vier ad bwa oss þar til med Føstum og Bæna akalle/ og vera minnuger þess sem sia Ifur Jesus Rædleggur oss hia Luc. 21. Vackted ydur/ suo ydar Hiørtu þyng est eige af Ofaate og Ofdryckiu/ ꝫ mz Sorgum þessarar Næringar. Hlydũ Aminningu Postulans Peturs. 1. Pist. 5 Cap. Vered Sparneitner ꝫ vaked/ Þuiad ydar Motstandare Diøfullen geingur vm kryng sem greniande Leon

Kk ij eptex

epterleitande þeim hañ ſuelge.

Nu vilium vier hid ſtuttlegaſta hey ta hõi"vered hafe Ordſaker til Þſſar" Herrans Chriſti Føſtu j Eydemörk iñe/Og eru þær þriar ſierdeilis.

Hin fyrſta er ſu/Ad hañ villde þar med giøra Forlijkun fyrer Ofneitſlu vorra fyrſtu Forelldra Adams og E vu/þa þau atu af þui banada Trie j Paradijs.

Þar næſt ſo ſẽ þ ad herrañ Chriſti do á Kroſſenum/ vppa þad hañ þrelſte oſſ fra eilijfum Dauda/ So hungrade hañ og ſo vppa þad/ ad hañ friјade bæde Adam og alla Adams Nidia fra eilijfu Hungre.

J þridia lage/Faſtade Herrann vor Jeſus j fiorutijge Daga og fiorutijge Nætta/ Ad hañ aminite oſs þar med/ ad faſta og hallda oſs fra allskonar Syndum og Ranglæte ſo myked ſem oſs være møgulegt/ Og er þad vm þañ þyrra Parteñ.

Añar

ANNar Parturenn hliodar um þær priggia handaslags Freistingar sem Jesus leid j Eydemørkinne.

Ordsøk og Efne til þeirrar fyrstu Freistingarinnar/ teer Diøfullenn sig af nær verande tilstande Herrans Christi/ Þui þa Jesus hafde nu fastad fioru tyge Daga og fiorutyge Nætur j Eydemørkinne og hann hungrade/ ÞA gieck Freistarenn til hans og sagde/ ef þu ert Guds Sonur/ þa seig þu ad Steinar þesser verde ad Braudum.

Þad er Diøfulsins gømul Vÿsa og vande/ad hann giefur vel gaum og gietur þar ad/þegar ein Manneskia sem af Hiarta elskar Gud sinn / ratar j nockurskonar Eymd eda Motgang/ og so snart sem hann merker þad / þa astundar hann þad mest hann kann / ad hann giete so taled um fyrer sømu Manneskiu/ad hun hallde øll þau Loford og Fyrerheit sem Gud hefur j sijnu Orde giefed þeim sem hann elska/fyrer Hiegoma og Barnamæl. Sømu

 adferd

adferd hefur hañ hier j frame vid Ner
rañ Christum/ Hans hreckvijs asetn-
ingur er/ad koma Jesu til ad tusla þ
uppa/ huert þad Guds Ord kuñe ad
vera satt/sem hañ heyrde til sijn tal-
ad j Eyrnecke/ad hañ være Guds el-
skulegur Sonur/ med þui hann lide
hier j Eydemorkeñe/soddañ Neyd z
Hungur/ og hafe nu pastad i heila
fiorutijge Daga og Nætur samfleitt-
Bijdur hønum þar fyrer og befalar/
ad hañ skule nu reyna til huort þad sie
satt ad hañ sie Guds Sonur/og skule
þui giora eitt Dasemdarverk/z seigia
ad Steinar þesser skule verda ad Bra
udum/ Alijka og hefde hañ so sagt z
talad/Ex. Moses kuñe med siñe Bæn
ad fa þad/ ad þar komu so margar
Wacktelur yfer Herbudder Israels ba
rna so þær þocktu Jordena nær kueg-
gia alna hætt. Num. 11. Jtem
Ef Moses kuñe ad odlast þad af
DROTTne ad Steirneñ gaf af sier
anegianlegt Vatn Exo. 17. Huar
fyrer

syrer skalltu þa ecke giefa komed þui til leydar/ ad Gud lœte Steinana verda ad Braudum/ einkanlega ef þu ert hans eingieten Sonur? Þetta hefur nu vered Argumentum og Astæde Diøfulsins j þessare fyrstu Freistingunne. En huøriu suarar Herran Jesus Diøflenum hier til? Hann slær hann strags med þui Guds Orde sem þar stendur skrifad j Deuter. B. 8. Cap. Ad Madurenn life ecke alleinasta af Braude/ helldur af sierhuøriu þui Orde sem framgeingur af Guds Mune. Hier kann nu einhuor ad spyrja/ huørt Herrann Christur hafe ecke gietad snwed Steinunum j Braudet/ lijka so sem hann snere Vatnenu j Vijn j Cana Galileæ? Þar til suarast so feidis. Visulega gat Herrann Christur þad giørt hefde hann viliad/ þui hann var Natturlegur og Almattugur Guds Son/ og sinurdur med Krapte/ epter Holldenu/ lijka vel til þess ad giøra Dasemdarverk. En med þui

hn̄ var ecke til þess Erendis af heilg
gum Anda a Eydemørkena wtleidd
ur/ ad hañ skyllde j þad siñ giora þar
Damsemdarverk/ helldur vppa þad/ ad
hann epter siins Fodurs Vilia skyll
de verda Freistadr af Diøflenum/ þa
suarar Herrann Christur hønum riett
telega hier vppa af Guds Orde.

Lærdom þann høfum vær oss hier
wt af ad taka/ Ad vær skulum fordast
ad giefa oss j langa Disputatiu
vid Diofuleñ/ Helldur skulum vær ept
er Herrans Christi Dæme/ setia a mo
te hans Freistingum Guds eigid Ord/
og hønum med einu Orde fra oss vijsa
so sem hann giorde j heilar þriar reis
ur. Hefde Eva so giort og ecke hall
did langt samtal vid Høggorminn j
Paradijs/ þa munde huorke hun/ nie
vær/ hafa ratad j þuijlijka Olucku og
Hormung sem vær annars høfum j
ratad.

Huggun høfum vier og eirnenn
oss hier af ad taka/ sem er/ Ad nær siñ

ÿ ij hellst

hellst vær kuñum ad rata i Armood edur Fatakt/so oss skorter Braud/ og verdum þar fyrer ad lijda Hungur/ þa skulum vær ecke leysa Dioflenum ad freista vor med Þioofnadar Adbur dum/ helldur skulum vier varpa allre vorre Ahyggiu vppa DROTTinn þa mun hañ vissulega sia oss fyrer Braude/og oss Dasamlega forsorga huad honum er epter sijnu Guddoms Almætte audvellt ad giora/ Þui ad so sem þad hañ hefur skapad alla Hlute af onguu efne/so er og so hans Makt so stoor/ad hañ kañ an Midils ad hallda Mañeskiuñe vid Lijfed nær hañ vill/Eñ sie so ad Gude þocknist ad brwka Midel til Mañsins Vpphelldis/ þa er hañ þo samt ecke bundeñ til Sidveniulegra Medala/ sem er Fiskur/Braud/ Kiot og añad sem vier plogum Almeñelega oss til Muñs ad leggia/Helldur huad hellst sem hañ skipar ad skule þiena til Mañ sins Næringar/þad allt verdur honū
Kk v strax

strax ad goodum Notum / suo sem
sia mꝏ a Dꝏme Israels Barna j
Eydemorkeñe/Deut. 8. Huor ed lis
du j 40. ar þyrer vtan Braud/og be-
vijsade Gud þar med ad hañ gaf þm
Mañá af Himnum/ad Madureñ lif
de ecke af einusamañ Braude/ helld-
ur af sierhuoriu þui Orde sem fram
geinge af Guds Muñe. So
siaum vier þad hier af/ ad Brauded
af sialfu sier til/nꝏrer oss ecke/helldr/
helldur voru Lijfe vid Makt þad krop
tuga Gud Ord/sem Braudenu samte
ingest. Þar fyrer skylldum vꝏr ecke
lata oss nockurn tijma þad wr Myñe
falla ad vꝏr lesum ecke vorn Bordpsá
lm/og blessum vora Fadu þa vier ga
ungum til Mꝏltijdar.
Oñur Freistingeñ sem Andskoteñ
freistade Herrans Christi med j Ey
demorkeñe/Var Ofþraust z Dramb
seme/ huar vm Gudspiallamadurenn
so skrifar. ÞA took Diofulleñ hañ
med sier j Borgena helgu/og sette hñ
R                    vppa

vppa Musteris Bustena / og sagde.
Ef þu ert Guds Sonur / þa fleyg þi
er hier ofan af / Þuiad skrifad er / ad
Englum sijnum hafe hann boded vm
þig / ad þeir a Hondum bere þig / suo
þu steyter ecke Foot þiñ a Steine.
Þad er eitt af Diofulsins hreckium z
Suikaporum / ad þa hañ sier ad hañ
gietur ecke komed einu Guds Barne til
ad efa Guds Ord og hanns Nadar
Fyrerheit / þa snyr hañ vm Bladenu /
og leggur sig þar til / ad hañ giete ko
med Mañeskiuñe til Drambseme og
Hofferdugheita / so siñ være hun ollū
ødrum Heilagre. Þad heiter med riett
tu ad Diøfullen setie Mann vppa
Musteris Bustena / þa hañ gietur tal
ad so vm fyrer einum eda ødrum / ad
honum þiker eingen vera sinn Lijke /
huerke j Gudrækne / Fromleika nie od
rum Mannkostum. J þuilijkañ mata
freistade hñ þß stollta z hofmoodugā
Phariseara / og sette hñ vppa Muste
ris Bustena / þa hann kom honum til
 ad

ad koma fram̃ þ Guds Auglite m₃ þſſ
um Ordñ og ſegia/ Eg þacka þier
Gud/ ad eg er ecke ſo ſem adrer Meñ
Ræningiar/ Oriettvijſer / Hoorkoms
meñ/eda ſem þeſſe Tollheimtumadur.
Med þeſſare Drambſeme gat Droſ
ylleñ ſo yferuñed þeñañ Phariſeara
ad ſialþút Gud feller þeñañ Dom yþ
er hann ad hañ hafe ecke geinged Ri
ettlætur heim aptur i ſitt Hws/ Þui
huor ſig ſialfan vpphefur/ hann ſkal
nidurlægiaſt. Luc. 18.

Onnur Adferd edur Mære ſem Dr
ofulleñ brwkar til þeſſ/ ad ſetia Mañ
eſkiuna opt og tijdum vppa Muſteris
buſtena/ er þeſſe/ Þegar eirn edur añ
ar þikeſt vera ſo Grundvalladur j Gu
ds Orde og goodum Sidum/ og ſuo
Trwarſterkur/ ad honum þiker þad
omogulegt vera ad hñ kuñe þadan j
þra ad falla fra Trwñe/ edur rata j
Otierlegt Lyſterne. Þa ſoddan Þank
ar koma i Mañſins Hiarta/ huad er
þad añad eñ Freiſtareñ hefur þa ſett
hañ

haň vppá Musterisbustena? J puilijkaň inᷓaata vard ſa goode z Gud hrædde David freiſtadur/ þar ꝧ ſeig- er haň j Pſalmenum 30. Eg ſag- gde þa mier giecf vel / ad eg munde all drei falla. Eins lijka vard S. Petur ſettur vppa Musterisbustená af Andſkotanum vegna Opträuſts ꝫ haň hafde a ſialꝑum ſier/þui þa Her- raň Chriſtur ſagde til ſiňa Læreſuei ňa/ ad þeir mundu aller hneyxlaſt a ſier/þa ſuarade Petur til og ſagde/þo aller hneyxle ſig a þier/ þa ſkal eg þo alldrei hneyxlaſt/þar ſyrer ſkyllde ein- giň treiſta meira vppa ſig/edur af ſier hallda/ eň goodu hoofe giegner.

Vier ſkulum og ſo varaſt ad láta Di oſuleň gieta ſett oſs vppa Musteris bustena/ huad ad ſkiedur/ ef vær af Arugyrugheitum gyrnuſtum ædra ed ur ypparlegra Embætte/eň Gud hef ur eirn z ſierhuor tilkallad/ helldr bliuf um þeigiňſamlega vid ꝧ ſem Herraň hefur oſſ tilſkickad/ ſo ſem hiň viſſe

Postuleñ Páll/ 1. Cor. 7.
En oss til Nuggunar skulum vær þad hier wt af taka/ad so sem þad/ad þott Diofullin sette Christum vppa Mustérisbustena/þa gat hañ þo samt ecke hrundid hm̃ þar ofan fyrer/Eins lij-ka mun hañ ecke fa fellt til stiska Limena Herrans Christi vm̃ alla Ei-lijfd.
Nu þridia Freistingeñ sem Herrañ Christur þolde / Edemorkeñe/var su/ Þa Diofulleñ villde hafa komed hø-num til Agyrndar og Afgudadyrkun-ar. Hier lætur Diofullenn j Lioss alla þa Illsku og Hreckuisse sem j hønum byr/Og er þ fyrst/Ad han et-eirn Blygdunarlaus Ande/ Þui þar hñ hefur nu ecke einusinne/helldr j hél-lar tuær reisur verid yfervunen af Her-ranum Christo/ þa skam̃ast hañ sijn huorke nie blygdast vid/ad koma ap-tur j þridia siñ og freista hans. O Herra Gud kome til/Hafe hañ nu so
giort

giört vid Nøþlldid/ Huad meine þier þa ad hñ mune giora Timunum? Nä se Herran sialfur matt lijda þuillijkt/ Vid huortu munu þa Þienararner meiga bwast? Hier næst syner Diofullen sig ad vera eirn Oþlugan og sterkañ Anda/ þar hañ þyrer Guds Tillatseine þlytur Herran Christum med sier vppa Musterisbustena/ z þadan aptur og vppa eitt ofurhatt Fiall.

J þridia lage beuijsar hñ sig hi ad vera eirn vppblæstiñ Drabmsemistar Anda/ j þui hañ dyrfest ad ostka þess aþ Herranum Christo/ad hañ þrañi þalle og tilbidie sig /og hallde sig fyrer þañ sem rada meige øllum Rijkiuñ Veralldarinnar/og meige giefa þau huorium sem hañ vilie. O Strasse þig Gud Sathan/ Þusünd Viclastiñ idur. Enn eirn argan Lygara beuijsar hañ sig ad vera þar mz/ ad hañn eignar sier ad meiga gieþa þ ødrum/ sem hañ a ecke sialþur neitt j/ Þuiad

Kk viij Jord

Jorden er Guds z allt þad þar inne er/ seiger David j Psalm. 24.
Hier af skulū vier þ læra/ Ad lyka ā þ ad Dioful len synde Herranum Christo so sem j Augabragde øll Rijke Veralldarennar og þeirra Dyrd/ So er og j sama maata øll su Glede og Netlegheit sem Diofullen loſar ad giefa Manneskiuñe/ ecke añad enn skammviñ Skiemtun/ sem valla varer vm eitt Augnablik ad reikna ā moote þeim ei lyfu Helujsku Kuolum/ og Himnarijkis oendanlegre Glede og Sooma.
Hier vm skylldū þeinka aller þeir sem vilia vinna þ fyrer Aud og Rijkdom/ ad þeir giefa sig fra Gude/ og villdu helldur þiona Dioflenum so sem(þui midur) ad Dæme þinnast til. Þesser ætttu jduglega ad hafa j Hiarta synu og þeinka þesse Jesu Christi Ord sem standa hia Matt. 16. Huad stod ar þ Manneskiunne/ þo hā kynne ad vinna alla Verolldena/ og lyda Tiopun ā Salu sinne? Seige þar fyrer huør og eirn

og eirn med Herranum Christo/ þa hañ merker þ Diøfulleñ vill freista hans j soddañ mæta/ og draga fra Gude til sijn/ Far fra mier Andskote/ eg vil hallda mi' vid miñ Gud/ z trey sta honum af øllu mijnu Hiarta/ bæde j Medlæte z Mootlæte / j Lijfe og Dauda/ Jæ/ seigie sierhuør so sȳ Kong Josaphat sagde ædur fordum til Jerusalems Jnnbyggiara og þeirra af Juda/ Trwed æ DROTTiñ ydar Gud/ so mun ydur vera ohætt/ og trwed hans Spæmöñum/ þa munu þier faa Luckū j añare B. Paralip. 20. Cap. Seigium orugger j Trw ne med Job/ þo þu DROTTiñ taker Lijfed af mier/ þa skal eg þo sämt vona a þig. Job 13. Og mz S. Petre/ Herra/ huört skulum vier fara fra þier? þu hefur Ord eilijfs Lijfs. Johañ. 6.

Nær vier so giorum j huörsköñar Freistingum sem Andskoteñ astrijder oß med/ þa mun þad obrygdanlegā

ſkie/ad ſa vonde Andſkóte mun forlaa
ta oſſ/ ſo ſem han̄ forliet Chriſtum/
Og ſo ſem þad/ad Einglar komu til
Jeſu og þionudu hønum / So mun
Gud og ſo beþala ſijnum Einglum
ad giæta vor og þiona oſſ/þui ſo ſtend
ur þar j Pſalmenum 91. DROTT
iſt er þitt Trwnadartrauſt ſa hin̄ hæd
ſte er þitt Athuarf/ Þar þyrer mun
þig eckert vondſlegt henda/og eingen̄
Plaga mun nalægia ſig til þijns Her-
iſmkyn̄is/þui han̄ heþur boded ſijnum
Einglum vm þig. etc. Jþærum oſs
þar fyrer Guds Herſkrwda z ſtrijdum i
Krapte Chriſti Man̄lega a mote oll
um Freiſtingum/ſo munum vier vm ſij
der þaa ad heyra þeſſa Gledelega Hug
gun/Sæll er ſa Madur ſem Freiſtin
gina lijdur/þui epter þad han̄ er rein
dur/mun hn̄ odlaſt Lijþſins Koronu.
Nuoria hina ſomu Lijþſins z Dyrd
aren̄ar Koronu/ oſſ giefe Gud j
Napne/ſijns Sonar Jeſu
Chriſti/ Amen.

An̄an̄

# Annan Sunnudag j Føstu.

Evange. Matth. 15.

JEsus gieck burt þadan / og foor j Lands alpur / Tyri og Sydonis. Og sia þu/ ad Cananersk Kona gieck ut aþ þeim somu Takmorkum/Kallade og sagde. Herra Sonur Davids Myskunna þu mier/myn Dotter kuelst j/la aþ Dioflen um. Og hn suarade henne ongun Orde/ Hans Lærisueinar geingu til hans/badu han og segdu. Lattu hana fara/ aþ þui hun kallar epter oss/ Enn han suarade og sagde. Eg em ecke sendur utan til þorta þadra Sauda af Husi Jsraels. Enn hun kom og tilbad hann seigiande. Herra hialpa þu mier/ Enn hann suarade henne og sagde. Þad er ecke gott ad taka Braud ded Barnanna og kasta þui fyrer Hunds/ ana. Enn hun sagde/ Satt er þad Herra/ Enn þo eta Hundarner aþ Molum þeim sem detta aþ Bordum Drottna sei/ tra. Þa suarade Jesus og sagde. Þu Kona/mykel er þyn Tru/ Verde þier

 sua

ſuo ſem þu villt. Og a þeirre ſomu St
undu vard hen̄ar Dotter Heilbrygd.

ÞAD verdur leſid j Geneſis B. 42. Cap. Vm Joſeph og hn̄s Brædur/ þa þeir komu til Egy ptalands/ z villdu kaupa Korn ſier til Biargar/ Ad Joſeph hafe ſynt ſig re idugleg an̄ vid þa/ talad þeim hardle ga til/ og kallad þa Nioſnarmen̄/ þar a ofan hafe han̄ halldid Simeone epter hia ſier j Fiøttrum z Fængelſe/ en̄ wtheimt ad Benjamin ſem var Ja cobs yngſte Sonur/ ſkyllde þæraſt ſier ſo han̄ være ſin̄ Þienare. 44. Cap.
Þeſſe Vidhondlun Joſephs vid Br ædur ſyna / er ſo j Sioon ad ſia ſo ſem han̄ hefde ecke ætt Ættarmot vid þa/ edur han̄ hefde alldeilis onguan̄ Ne iſka Broodurlegrar Elſku haft til þei rra. Alijka og med ſama moote aud ſyner ſig ſa Himneſke Joſeph DRO TTin̄ vor Jeſus Chriſtus j þeſſa Dags Evangelio vid þa Cananverſku
Kuiñunā

Kuiñuna/ Nañ leiþer ecke ad eins/ ad heñar Dotter skule med Dióþul-sins Fiøtrum bundeñ vera/ helldur þeiger hañ þar ad auke vid heñe/og nær hañ vm siider virder hana neck urs andsuars/ þa syneſt þad vera me ir aþ þioofte eñ Medaumkan / þui hañ ſeigeſt ecke vera ſendur nema til Fortapadra Sauda af Hwſe Iſraels/ I einu Orde ad ſeigia/Herrañ Chriſtur hagar hier ſo Ordum ſijnum og Vidmoote vid þeſſa Canverſku Kuiñu/ ad hun heþur mætt þeinkia / ad þar være eingeñ von til/ad hun heþde ſier framar nockrar Nædar eda Myſkunar af hm̃ ad vænta. Ioſephs Bræ dur medkiendu/ ad þeir hefdu med ſijn um Syndum þad forþienad/ þo þeir yrde nu fyrer þuilijkre Oblijdu og hør dum Ordum af Rædsmañe Kongſins J Egyptalande ſem þeir þeingu ad heyra. So mætte og ſo ſu Can uerſka Kuiñañ/og vier aller med hen ne/ jata og medkieña ad vier hoþum

 for

þorþienad(ongus ſijdur eñ þeir) med Syndum vorum/þad/ad Herrañ Chr iſtur ſkyllde ecke ad eins þeigia vid Bœ num vorum/ helldur og eirneñ ſijna a ſier Reideſuip vid oſs/þui huad opt he fur hañ forgiefins kallad til vor j ſiñ nu heilaga Orde og amint oſſ til Yf-erbootar? Er þa ad furda ſig þar yfer/þo hañ lœte oſſ kalla nockra ſtu nd aptur til ſijn' œdur eñ hañ Bœn-heyrer oſſ? Eñ hier a moote a oſſ oll um ad vera þad til ſtœrſtu Hiartans Huggunar og Glede/ ad ſo ſem þad ad Joſeph þo hañ ſynde ſig j fyrſtu biſtañ og ofugañ vid ſijna Brœdur/ þa hafde hañ þo ſamt hid iñra Hia-rtgroona og Broodurlega elſku til þe irra/ſo hans Hiarta brañ af Kiœrlei ka j honum/og gat ecke leingur leint ſier fyrer þeim. Eins hefur og ſo Herrañ Chriſtur hier eitt Broodurlegt Hiartalag til þeirrar Cananerſku Kuiñ uñar og allra vor/ ſo ſem ſiœ mœ a Endalykteñe œdur eñ þau ſkildu. Og vilium

vilium vier nu heyra einfallda Vtleg
ging þessa Gudspialls/og þad sama j
þremur Smagreinum.

1 Og er hin fyrsta vm Kryngumstæ
dur þær ß viduskia þessu Evangelio.

2 Añur vm þa þrefallda Reinslu
sem þesse Kuña vard ad þola.

3 Um þridia skal vera vm þa Dyrd-
legu Sigurviñing z Ending/sem hun
fieck a þessare Reinslu/Med þeim Lær
domum og Huggunum sem hier ad
hnyga.

Herra Jesu Christe/Vertu j Verke med oss
so sem þu ert vanur/ og gief ad þesse vor
Vmþeinking meige verda þier til Lofs/ eñ
oss til Vppvakningar og Andlegrar
Huggunar/ A M E N.

SO myked sem þui fyrsta Greinar
kornenu vidvijkur vm Afvik edur
Kryngumstædur / sem ahræra þessa
Dags Evangelium/ þa hliodar suo
hier vm Textañ. OG Jesus giecl
burt þadañ /Og for j Landsalfur
Tyri og Sidonis.

Ordsok og Efne þar til/Ad Herr

 ann

eñ Christur vyke j burt wr Gydinga Lande/ fra sijnu eigen Folke/ til huørs hañ var þo sierdeilislega sendur/ enn ferdast aptur j þ Heidna Land Pheni tien j huøriu ad voru þesser tueir Sta der Tyrus og Sidon/ Þa var su skarpa Disputatia/ sem Jesus hafde halld ed vid þa Skriptlærdu og Phariseos/ vm Mañasetninga/ af huørium þeir hielldu meir og framar enn af Guds eigen Orde og Befalningu/ so sem sia ma af sama Capitula Matth. Sem þetta N. Evangelium stendur j. Og so sem Herr an Christur formerk er ad hann gietur ønguo til leidar ko med vid þa/ og þeir villdu ecke hlyda Sañleikanum/ þa talar hñ so til sinna Lærisueina/ og seiger/ Lated þa fara/ þeir eru blinder og blindra Leidtogar/ Matth. 15.

Hier af høfum vier þad ad læra/ Ad Herrann Christur er ecke bunden med sitt heilaga Ord vid nockurt vist Platz Stad edur Land/ helldur nær hañ sier

ad bæde Hañ og hans heilaga Ord er foracktad af einum edur ødrum/ þa vyker Hañ burt þadañ/og fer apt ur þangad med Ord sitt og Velgiørn inga sem honum er giegnt og teked/ Þui so seiger Herrañ sialfur j fyrre Samuelis B. 2. Cap. Huør mig heidrar/þañ vil eg heidra/Og sa mig forracktar/hañ skal fyrerlitenn verda.

Dæme hier vppa vilium vier taka af einum goodum Fodur/ nær hañ kall ar Børn sijn til Bordz og Maaltijd ar/ eñ þau vilia ecke giegna honum/ edur koma/ elskande meir Leik og Laat giæde eñ Fodursins blydt Bod/Þa re idest Faderenn Børnunum sem von er a/og lætur Dyrnar aptur fyrer þeim so þau verda ad þarfnast Matarins. Eins geingr þ til (þegar Herrañ Ch ristur bydur oss Mønnunum j sijnu H. Orde til þeirrar andlegu Sælar kræd uñar/ eñ vær sætum þui ecke/ vcktum meira fyrer Glaum z Glys þessa He ims/eñ Jesu blijdlegt Bod/þa tekur

 hann

pra ofs þad Hunneſka Braudedᐟeinn
ſender j ſtaded Hungur Ordſins/ Ept
er þui ſem þar ſtendur hia Spamañ
enum Amos/ 8. Cap. Sia þu/ſeiger
DROTTiñ/Eg vil ſenda Hungur
j Landed/ ecke Hungur epter Braude
edur Þorſta epter Vatne/ helldur ept
er þui ad heyra Ord DROTtins.
Latiũ ofs þar fyrer ſia ſo til ad Herr
añ Chriſtur vijke ecke j burtu vr vor
um Kyrkium og Skoolum/nie vorum
Hwſum og Hiortum/ helldur koſtum
Kapps a ſo ad haga ofs z hegda vid
Guds Ord og hans Þienara/ad hñ
hafe Lyſt til ad vera hia ofs z a med
al vor med ſijnu Naadarrijke/þt ſæll er
ſa Madur hia huorium ad Herrann
Chriſtur byr og bygger.

Þad añad ſem ofs er athugande
af þeſſu þryſta Greinar kornenu/ er
vm Kuiñuna ſem hier verdur gieted/z
vm heñar Hwskroſs/z huornen hun
hagar ſier z hegdr þar j ñe/Gudſpia
llamaduren talar hier ſo vm. OG ſia
þu

þu/ Ein Canuersk Kuinna gieck wt af þeim somu Takmorkum. Þetta Ord=orned/ Sia þu/ Þad aminer oss ad vær skulum vandlega giæta ad þui sem hier skiedur/ Lijka sem Gudspialla madurinn heþde so sagt og talad/ Þad er ad sonnu stoor og þurdanlegur Hlu tur ad Gydinga Folk skygger i burt þra sier þann Fyrerheitna Heimsins Frelsara/ Enn Heidingiar og Afguda dyrkarar medtaka hann aptur. Þar næst stendur i Textanum/ ad þesse Kuinna hafe vered Canuersk/ Þad er/ ad hun haþe verid komenn af Canaan/ edur af þui Cananeiska Folke/ huoriu Gud hafde adur fyrre formællt fyrer Munn Forfodursins Noua/ Gen. 9. Og sagt/ Boluadur vere Canaan.

Hier af meigum vier taka oss þad til Huggunar/ Ad ef so kann ad skie/ ad eirn edur annar skurlar þad i sijnu Hiarta ad hann þikest komen af illum og Oguðlegum Foreldrum/ Þa læte hann sier til Hugar koma þaug Ord

 Orðs

DROTTins / sem hañ talar fyrer Muñ Spaamañsins Ezechielis. 18. Seigiande/ Sonureñ skal ecke bera Fødursins Misgiørning/ og Faderen ecke Sonarins. Jaa/Nuor og eitt sem j slijkañ maata verdur preistadur/skylde giora so sem su Canversk Kuiñañ giørde/ Ad þo hun være komeñ aþ þui Boluqada Canaans Afkuæme/ þa hellour hun fier þo samt til Jesu.

Þar hier stendur j Gudspiallenu ad þesse Canuerska Kuiñañ hafe geingid wt af Heidingiaña Takmørkum Tyro og Sydone/ Þa verdum vier þar mz Aminter.

Fyrst/ huad mykliu Goodu ad Kross og Mootgangur kome til leidar/ sem er/ ad hañ tekur allt athugaleyse burt fra Mañeskiuñe/ og lockar hana til ad leita ad Herranum Christo/ ecke suo sem Stryds menn Gydinga leitudu ad hønum fordum j Grasgarden um/ Þa þeir med heyptugum Huga gripu hañ og færdu j Fiotur/ helldur med

med audmiukre og alvarlegre Bæn z
angrudu Marta. Þesse Kuiña hafꝭ
de lifad allt til þess á i stooru athuga
leyse/ so hun skeytte huorke vin Herr-
añ Christum/ nie vm sijna Sal' Vel
ferd. Eñ sem Kross og Motlæte sæ
ker hana heim/ þa kiemur þad henne
af stad huort hun vill/edur vill ecke/
so hun geingur wt og leitar sier lijkn
ar hia Herranum Christo. Já/ suo
sem þad/ Ad þess meir sem Vatned
vox yfer Jorduñe j Noa Floode/ þess
hærra lipte þad Orkeñe vpp / Eins
giora og lijka Dylgiur Motlætinga-
na/ þess meir sem þær brwsa og reisa
sig ordugar/þess meir lypta þær bæde
Huga og Salu Mañeskiuñar vpp til
lifanda Guds so þau nalægiest hñ.
Nond DROTTins er alyka til
ad jafna/ so sem eirn Segulsteirn/hu
or ed Mañaña Hiortu snerter/einkan
lega þa þau eru ordeñ Stalhord/ og
dregur þau nedañ wr Diwpe Horm
ungaña vpp til sijn/ þar fyrer talar
 Davið

David so j Psalm. 130. Burt wt Diwpenu hreopa eg DROTTiun til þijn.

Þar næst so s̃ þ/ Ad su Canversta Kuiñan geingur hier wt/ ecke alleinasta fra þeim Neidnu z Ogudlegu Tyri og Sydonis Iñbyggiurum/ helldur og so fra þeirra Takmørkum/ So eigum vier eirneñ ad skilia oss andlega/ ecke alleinasta vid Samfielagskap illra Maña z Heimsins Vellystingar/ helldur og so ad fordast z flya allt þad sem oss kañ ad leida og locka til Syndaña.

Þad er z so mykils Lofs vert j fare þessar Kuiñu/ Ad þo hun være heideñ og af Neidingium komiñ/ þa fer hun ecke eins og adrer heñar Landsmenn til siña Afguda/ eda j Goda hwsid/ ad bidiast fyrer vm Hialp vegna siñar Doottur/ helldur flyr hun og fer til þess rietta og saña Naudhialparans vors DROTTins Jesu Christi. So eigū vier og so ad fordast ad leita

oss

oss Læckningar hia nockrum odrum enn hia Endurlausnaranum vorum Jesu Christo / huort sem vier þurfum heñar vid vegna vor sialfra edur añara.

Nu vilium vier framveigis fa ad heyra / huorneñ þesse Cananeiska Kuiñ añ hagar sier þa hun kiemur til Herrans Christum. Gudspiallamaduren seiger / ad hun hafe hroopad epter honum / og sagt. Herra Sonur Davids Myskuna þu mier. Þesse Bæn er ad soñu fa ord / eñ þo kroptug og Trwarmykel / gaumgiæfum hana þui vel og rækelega / so vier mættum nockud gott af heñe nema.

Fyrst er hier athugande ad Bæn þessarar Kuiñu / hefur ecke vered nockurt Munngiælfur / Flapur edr gælaust Barnahial / helldur þuilijk Rada sem fram hefur floted af einu breñande Hiarta / huad rada ma af þui ad Lærefadereñ Lutherus seiger / hun hafe hroopad og sagt / Ach edur Æ Herra / huort Hliood vær þlegum ecke giarnañ

ad láta heyra til vor/vtan þegar oss tekur eitthuad sárlega til Hiartans.

Munum oss þar fyrer/nær vier giør um Bæner vorar til Lifanda Guds/ ad vær giørum það af Alvørū z kloc kuo Hiartá/so ad sú Klogun eige ecke heima hiá oss/sem sialfur Gud fram setur hiá Spámanēnum Esaiam sei giande/Þesse Lijdur nalægest mig mz sijnum Muñe/z heidrar mig med Vo rum sijnum/eñ þeirra Hiortu eru lang gt frá mier .29. Cap.

Þar næst giører hun Bæn þessa ecke af neinne Falvijsku edr Vidarrá de/helldur af storre Framsyne og skyn seme/ þui hūn tilbidur hier enguañ añañ/ eñ þañ sáma sem Gud hefur sialfur skipad j sijnu Orde ad tilbedeñ skyllde verda. Skamast meiga sijn þar fyrer hiá þessare Kuiñu/bæde Papistar og adrer/sem tilbidia heila ga Framlidna Meñ /edur Lykneskiur vm huoriar Dávid so talar j Psalm. 115. Og seiger/ad þær hafe Muñā og tale

og tale ecke / Augu og siae ecke / Eyru og heyre ecke.

Framar meir er oss þad athugande ad hun kallar Christum ecke einungis Herra / hélldur z so Davids Son / Þar hun kallar han Herra / þa jatar hun og viþurkienner ad hann hafe Makt til ad hialpa j allskonar Neyd z Nor inunguin / Hun jatar og so ad hann sie eirn Almattugur Gud og Herra yfer ollum Hlutum / og eingen sie hans Lyke / Psalm. 35. En þar hun kallar han Davids Son / þa medkiener hun ad hn sie sa sanne fyrerheitne Messias og Hennsins Frelsare / sem fædast atte af Davids Attkuþsl.

So skulum vier læra þad hier aþ / Nær vier giorum vorar Bæner / hvort hen vær eigum rietteléga ad tilbidia Jesum / sem er / Vær eiguin ad akalla han og tilbidia sañan Gud og sañan Mañ j eirnre Personu / en ecke so sem sumer Villumeñ vilia / Ad Herrañ Christur sie alleinasta tilbediñ epter

Min Gud

Guddomenum/ eñ ecke epter Manni-
demenum.

Framar meir læfur þesse Konuskiep-
na j hvoße huar vm hun bidur/sem er
vm Rád/Vægd og Myskun bæde sy-
rer sig og sijna Dotter / huør hun
seiger miog jlla kuelieft ap Diopl-
enum. Þad hepur man eps inatt vera
em hrædeleg Pijna og Hiarta sorg/
sem þesse Konukynd hefur hapt ad bæ-
ra þar hun vard ad sia þar vppa bæ-
de seint og snemá/ad heñar Hiartkiæ-
ra Dotter var so hrædelega kualeñ z
krameñ ap Dioplenum/ad hun haf-
de onguu Roo eda Hüjld huorke No-
ott nie Dag/ og þui er oll Von þar
til/ þo hun hafe vered so akøp j þui
ad leita sier Myskunar hia þeim sem
Nægd Myskunar og Endurlausnar
eñar var hia ad fa z þiña.

Hier ap hofum vier oss þad til Lær-
doms ad taka/ huorneñ þad ad Foreld-
drana Giede og Hiartalage eige ad ve-
ra vared til sijña Barnakynda/ sem

ke/ Ad þeir eiga ad hafa þaug Hiarta ãnlega kiær/ og bidia fyrer þeim/ þui Børnen̄ eru ein edla Gafa Guds/ og eirn forkostulegur Skeinkur þess allra hædsta. Ja/ sialfur Gud Himneskur elskar þaug og virder so mykels ad han̄ seigest vilia tilreida sier Lofgiørd wt af þeirra Mun̄e. Psalm. 8. Vor einka Endurlausnare z Emanuel Jesus Christus hefur sialfur tekid smabørnin̄ i fang/ lagt sijnar signudu Hendur yfer þau/ blessad þau z sagt/ Leifid Bornunum til mijn ad koma/ z bañid þeim þad eige/ þuiad þuilijkra er Guds rijke/ Matt. 19. Þeir H. Guds Einglar a Himnum ála þuilijka Ø̄n fyrer Smabørnunum/ ad þe ir giæta ad þeim og vernda þa fra øllum Slisum / so þaug steite ecke Foot sin a Steine. Psalm. 90.
Viltu nu vier rena Augum vorum til añara Skeipna Guds/sem han̄ hef ur skapad/ en̄ hafa þo ei þeiged Mal nie Skynseme eins og vær/ Þa sia
Mm iij viess

vier Hugsijka Vmhyggiu þær bera
fyrer siinu Afkuæme. Þad er skrifad
ad vm Høggorminn / Ad þa hann hefur
drepid Vnga þess Fugls sem heiter
Pellican / þa hogguir same Fugl sitt
Briost j sundur mz siinu Nefe / z læte
so sitt Blod renna ofan a vnganá / suo
þeir verde lifande aptr / Sie þetta satt
huad ættum vier Mennerner þa ad giora
sem Gud hefur giefid bædi vit og
skin / skildum vier ecke myklu framar
elska vort Afkuæme huørt Gud hef-
ur virdt so mykels / ad hann hefur þad
skapad epter sinne eigen Mynd / enn hu
ørnenn þad tilgange fyrer sumumhuør
ium Forelldrum / þar vm er Siön søgu
rijkari / þar finnast þeir sem ecke allei
nasta hata so sijn Børn ad þeir vilia
huørke heyra þaug nie sia / helldur
reka þaug fra sier olldungis og giora
þm ecke hid minsta gott / þuilijkt Rætt
ärleyse vill Gud j engian mata lijda.
Þar næst verdur oss fyrer Sioner
sett af Dæme þessarar Kuinnu z hennar
Dooll

Dooktur/huad mykel og margvyßleg ad sie Mañskiepnuñar Eymd hier j Lyfe/so þar finst traudlega þad Nws edur bygt Bool sem ecki hafe siñ sier dellis Kross og Motgang/sie þad ecke a Forelldrunum/so er þad añadhuort a Børnunum/ Nijunum/ edur og so a þeirra Goze/so þad vill sañast sem sa vyse Syrach seiger j 40. Cap. Ad þad er eirn aumlega Hormulegur Natur/ vm allra Mañа Lyf / fra Modur kuide/ allt til þess þeir eru j Jordena grafner/ huør ad er allra vor Mooder/ Þar er ætijd Ahyggia/ Otte /Von/og med seinasta Daudeñ/ Jafnvel hia þeim sem j skoorum Neid te sitia/ sem hia þeim minsta a Jordu/ Jafnvel hia þeim sem Silke og Coronu bera/ sem þeim/ sem klæder eru grærre Nempu. Þesse Vmþein king vorra Eymda og Armædu/ ætte og alla tijma ad þiena oss þar til/ ad vær kyñum ad verda þ rfsamler gio ra Jdran vorra Synda/ og læra ad Mi m iñ . elska

elſka Gud/Og ſkal þad ſo ſagt vera
ým þad fyrſta Greinarkorned.

A NNar Partur Gudſpiallſins hliod
ar vm þa þrefallda Reinſlu/ ſem
þeſſe Kuiña vard ad lijda. Gudſpialla
madyreñ ſeiger/ Ad þa hun hroopade
epter Herranum Chriſto/og bad hañ
vm Hialp/ þa hafe hañ ecke ſuarad
Heñe einu Orde. Þetta hefur
mætt falla þeirre aumu og Sorgfullu
Kuiñu næſta þungt til Hiarta/ad Ne
rrañ Jeſus virder hana ecke Andſu
ars/ helldur þeiger hañ vid hennar
Bæn. Og ſiaum vier fyrſt hier af
huorneñ Gud plagar ad høndla vid
oſſ ſtundum/ þa oſſ liggur a/ og vier
kollum til hans j vorre Neyd/ſem er/
ad hañ þeiger vid Bænum vorum.
Hier kañ einhuor ad ſpyria/huorneñ
ſlykt kome til /þar hañ ſkipe þo ſialfr
ur j Pſalm. 50. Akalla þu mig a
Hormungar tijmanum/ eg vil Bæn⸗
heyra þig/eñ þu ſkallt priſſa mig. Og
hia Spamañenum Eſa. 65. Cap.
Seiger

Seiger hañ/Pad skal skie ad ødur eñ
þeir kalla /pa vil eg andsuara þeim
og medan þeir eru eñ nu ad tala vil
eg heyra pa. Quad heyre eg
hier? Er pa Gud nockud Ohalldiñ
ordur/ so hañ helldur ecke þesse sijn
Fyrerheit og Lofaner? Nei/langt þi-
ærre/ helldur eru þar vissar Ordsaker
til huar fyrer Gud dregur vndan opt
og tijdum Bænheyrsluna vora/og suar
ar oss ecke so fliott vppa vora Suplí
catiu sem vær giarnañ vilium.

1 Fyrst skiedur pad/ þess vegna/ so
vier mættum kañast þar vid/ ad vier
hofum ecke alleinasta med vorum suñ
virdelegum Syndum þad forþienad/
Ad Gud skyllde leggia oss Kross og
Motgang vppa/helldur/ og so/ ad hñ
skyllde afseigia oss sijna Hialp og ad
stod.

3 Þar næst dregur Gud og so vnd
añ Bænheyrsluna vora/so vær skulum
verda þess heitare og akafare j Bæna
akallenu.

3 Og i þridia lage/ sw ad Nialp DROTTins verde oss þess gledeleg re og Huggunarsamlegre sem hun ki emur seirna fram/ enn vier sialfer Þss fœsare og æfiædare til ad þacka Lif anda Gude fyrer sijna Nædarrijka Ni alp/ og ad hun palle oss alldrei wr Miñe þadañ i fra/ suo leinge sem vier lifum.

Vær Skulum og so taka oss þad hier af til Huggunar/ ad þo ad Gud andsuare ecke Bænum vorum strax ẽ vier kollum til hañs /þa meigum vier ecke strax þar af alikta ad Gud hafe olldungis yfergiefed oss og ad vær hø fum oss ecke framar hia hønum Næ dar ad vænta/ Nei/ ecke so. Siaum Dæme þeirra heilogu Manna i fordū tijd/ Kallade ecke Noe til DROT Tins eitt heilt Ar i Orkeñe ædur eñ hañ vard Bænheyrdur/ og wtleiddur þadañ. Joseph i Egyptalands Fæ ngelse i þriu ær. Jsraels Folk i E gyptalande i 350. Ar. David i siñe

wtlegd

ytlegd j ſiju ær/og ſo marger adrer
Huørter ſærgrætelega hafa veinad og
klagad yfer þeſſare Pogneñe. Seiger
ecke hiñ heilage David j Pſalm. 10.
DROTTiñ þui geingur þu ſo ſiar
lægt? Og geimer þig a Naudungar-
tijmanum. Og j Pſalm. 13. DR-
OTTiñ/huørſu leinge villtu ſo olld-
ungis gleyma mier? Huørſu leinge
hylur þu þitt Andlit fyrer mier? Nu
ørſu leinge ſkal eg vera Sorgande j
minne Sálu/og ængra mig ſo j mijñ
nu Hiarta Daglegana? Item j Pſa
lmenum 69. Klagar hiñ H. David
ſo og ſeiger/ Eg hefe hroopad mig
moodañ/miñ Hals er háas/Synenn
ſorgeingur/þad eg ſuo leinge hlyt ad
bijda epter mijnum Gude. Og eñ apt
ur ſeiger hañ j Pſalm. 83 Gud þeig
ei þañeñ/z vert ei ſo þagmælſkur/zc.
Eñ ſo ſem þad ad bæde David z ad
rer Guds meñ vrdu vm ſijder Bænhey
rder z frelſader af þeirra Anaudum/
So mun Gud og ſo viſſulega Bæn-
 heyra

heyra oss/ ef vier hollдū fast æfram̄
j Truñe og Bænakallenu. Suo
sem þeir/ seigiande/ Þo Duol su þær
est fram̄ a Natt / fra þui til Morg
uns siþan/ mitt Hiarta a Guds æst
og Mætt/ efast skal ei nie kuñда.

Framveigis þar hier stendur / ad
Lærefueinarner Herrans Christi
hafe beded fyrer þessare Konuskiep
nu/og sagt. Herra/ Lættu hana fa
ra þui hun kallar epter oss. Þa hof
um vær oss þar af/ þetta til Amiñing
ar ad taka/ ad nær sem vier heyrum
edur siaum/ad vor Samchristeñ Na
unge/ ratar j nockurskonar Freisting
ar eda Hormung/ þa er tilheyrelegt z
skylldugt/ ad oñur Guds børn bidie
fyrer honum til Guds/ ad hañ vilie
giefa honum eitt Nadugt Frelse/ fra
sine Eymd/ huad hid sama Ande DR
DTTins bydur oss ad giora/ med þß
um Ordum j Pistle hins H. Jacobs
5. Cap. Sie nockur Siukur ydar a
mille/ sa kalle til sijn Hilldunga Safn
adarens

adarens/ og lææte bidia fyrer ſier. et.
Þuiad Bæn þeſs Riettferduga maa
myked þa hun er alvarleg.
Eñ Ordſøkena/ huar fyrer Herrañ
Chriſtur hafe gieþed Lærefueinunum
ſuo hart Aþſuar/ ſem hier epterfylg
er/ þa. þeir bædu ꝧ þeirre aumu Kuï
ñu/ Hana tillegg: Lærefaderenn Chry
ſoſtomus/og ſeiger ad Herrañ Chriſt
ur hafe viliad kieña þar med/ad Meñ
ſkylldu ei ſo ølldungis reida ſig vppa
añara Fyrerbæn*/ad þeir forſoomade
þar med ad bidia fyrer ſialfum ſier/
Helldur være þad Naudſynlegt ꝛ Gu
de þocknanlegt/ad vær komum ſialfer
fram fyrer Gud med vorar Bæner.
Epterfylger ſu øñur Reinſlañ/ ſiñ
þeſſe ængrada Konuſkiepna vard ad
wtſtanda/ ſem er þeſſe/ Ad Herrann
Chriſtur ſo ſem wtelyker hana hier
fra ſiñu Rijke/Þuiad þegar Lærefuei
narner bidia fyrer heñe/þa tekur He
rrañ hardlega vnder vid þa/ꝛ ſeiger.
Jeg er ecke ſend: vtan til Fortapadra
 Sauda

Sauda af Hwsi Israels. Mykel
og þwng var ad ſoñu ſu fyrſta Rein
ſlañ/ þa Herrañ þagde vid þeirre au
mu Canuerſku Kuiñu/ Eñ þſſe er lan
gtum ſtærre/þui huad er þetta añad
eñ ſem hañ hefde ſo ſagt og talad/þu
ert ecke af mijnu Saudahwſe/ þu ert
ecke jñſkrifud j Lijfsbookena helldur
j Daudans bok/Ja/ j þad ſuarta
Regiſtred / þar fyrer þarftu ecke ad
vænta þier neitnrar Nadar hia mier.

O Herra Gud/huad hrædeleg Ord
eru þetta/Ja/þau hafa viſſelega ge-
inged þetrre aumu Kuiñu j giegnum
Merg og Bein. Viſſulega hefur
Sathan j þetta ſiñ/ecke þorſemad ſig
helldur hefur hañ blæſed ad þeſſum
Freiſtingar Kolum med / og bored
ſig ad telia ſo vm fyrer þeſſare veſolu
Konuſkiepnu ſo hañ giæte komed hen
ne til Orvæntingar/hañ hepur predi
kad hid jñra ſo ƥyr r heñe/ og ſagt/
Heyrdu nu til huoriu hañ ſuarar/þu
hefur nu feinged þa wrlauſn ſem þier
ber

